9. Fjármál.
10. Fræðslumál.
11, Samvinnumál.
12. Byggingamál.
13. Útgáfumál.
14. Minjasafnsmál.
15. Skýrsla formanns háskólastólsnefndar.
16. Kosning embættismanna.
17. Ný mál.
18. Ólokin störf og þingslit.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg 21, feb. 1949

Richard Beck
Ingibjörg Jónsson
Kristín Johnson.

Fundi frestað kl. 1.30 e. h.

Annar fundur settur kl. 1.30 e. h. Fundargjörð fyrsta þingfundarins lesin og samþykkt. Skýrsla deildarinnar Ísland fyrir árið 1948 þá lesin.

**Ársskýrsla deildarinnar „Ísland"**

Morden, Man.

Deildin „Ísland hafði fjóra (4) almenna fundi á áriu 1948. Þessir fundir voru vel sóttir. Meðlimatala hélst óbreytt að mestu, nefnilega 24 fullgildir meðlimir Þjóðræknisfélagsins, og einnig tilheyra svo að segja allir Íslendingar í bygðinni heimadeildinni.

Við áttum því láni að fagna að Mrs. Hólmfríður Daníelson heimsótti okkur þann 11 júní síðastliðinn. Ræða Mrs. Danielsonar var áhrifamikil og ágæt þjóðræknishvöt, og erum við henni hjartanlega þakklát fyrir hennar mikla starf og áhuga fyrir okkar þjóðræknismálum.

Við fengum góða gesti frá Mountain N. D., er þeir séra Egill Fáfnis, Mr. Guðmundur Jónasson og Mr. Hjörtur Hjaltalín heimsóttu okkur og skemmtu á fundi þann 19. nóvember síðastliðinn, með ræðuhöldum. Auk þess flutti Mr. Jónasson frumsamin kvæði og séra Egill söng marga einsöngva af snild og okkur til ósegjanlegrar gleði. — Við erum þeim mjög þakklát, fyrir komuna og vinsemdina. Þetta er ekki í fyrsta skipti, heldur það þriðja, sem meðlimir deildarinnar „Báran" hafa heimsótt okkur, skemmt og uppörfað á liðnum árum, og er það aðdáanlegt og vinsamlegt.

Frú Guðrún og séra Eiríkur Brynjólfsson heimsóttu okkur 14. júní og messaði séra Eiríkur þann dag, (mánudag), Eftir messu var öllum viðstöddum veitt kaffi. Þar næst bauð séra Eiríkur okkur að syngja íslensk ættjarðarljóð og leiddi sönginn. Flutti svo ágæta fjöruga ræðu viðvíkjandi Íslandi, kryddaða skemmtilegum frásögnum og mælsku, hvatti okkur til að viðhalda okkar góðu og göfugu íslenzku tungu. Þetta er okkur eftirminnilegur dagur.

Vegna snjóþyngsla og afar mikilla kulda hefir ekki orðið af fundarhöldum í vetur; embættismenn deildarinnar þeir sömu og síðastliðið ár.

Með bestu óskum til þjóðræknisþingsins

Virðingarfylst
Thorsteinn J. Gíslason

Tillaga Einars Magnússonar, studd af Dr. Richard Beck, að skýrslan sé viðtekin, samþykkt.

Sigurður Baldvinsson las skýrslu Gimli deildarinnar.

**Skýrsla Þjóðræknisdeildarinnar „Gimli" 1948**

Gimli deildin hefir starfað svipað og að undanförnu. Fjórir starfs- og skemtifundir haldnir á árinu með góðri aðsókn.

Íslenskuskólinn á hverjum miðvikudegi. Skólastjóri er Mrs. N. O. Kárdal, starfandi með henni eru sem hér segir:

Mrs. Th. Kárdal,
Mrs. I. N. Bjarnason,
Mrs. H. G. Sigurðsson,
Mrs. R. Jones,
Mrs. W. Einarson.

Inntektir hafa verið litlar á árinu, en það má ekki taka það svo, að það sé dauft í félagsskapnum; það er þvert á móti, það er verið að undirbúa fyrir stóra samkomu, sem halda á í vor. Í sjóði voru $89.19 á ársfundinum.

Embættismenn fyrir næsta ár eru þessir:

Mr. Guðm. Félsted — Forseti,
Mr. I. N. Bjarnason — Ritari,
Mr. E. Ólafsson — Féhirðir.

Æskilegt væri að meiri samvinna væri um hönd höfð milli aðaldeildarinnar í Winnipeg og deilda út um landið, t. d. væri gaman að sjá eitthvað nýtt frá Íslandi myndir, (films) sérstaklega.

Með kærri kveðju og hugheilustu hamingjuóskum til þingsins.

Vinsamlegast
Ingólfur N. Bjarnason .

Tveir merkir félagar deildarinnar ‚Gimli' hafa látist á árinu þeir Guðni Þorsteinsson og Þórður Þórðarson.

Tillaga J. J. Bíldfell, studd af Einari

Magnússyni, að skýrslunni sé veitt móttaka, samþykkt.

Skýrsla deildarinnar „Báran" lesin af Dr. Beck.

**Skýrsla Bárunnar að Mountain, N. Dakota fyrir árið 1948**

Ársfundur Bárunnar var haldinn að Mountain, 8. febrúar 1948; var hann vel sóttur og öll mál rædd vel og ýtarlega, var hagur Bárunnar í góðu lagi, var þetta ágætur fundur og uppbyggilegur, gott „Program" og kaffiveitingar eftir fund.

Þá var fundur haldinn í Bárunni í skóla húsinu að Mountain 22. maí, var þessi fundur aðallega til að ræða um 17. júní samkomuna, var málið rætt vel og lengi og eftir þær umræður var ákveðið að halda upp á 17. júní, og framkvæmdanefndinni falið á hendur að sjá um 17. júní-samkomuna.

17. júní rann upp skær og fagur, var aðsókn að samkomunni ágæt og „Programið" var framúrskarandi gott, að öllu leyti. Ræðumenn voru séra Eiríkur Brynjólfsson, dr. Richard Beck og Snorri Thorfinnson. Kvæði flutti G. J. Jónasson, en séra Erick Sigmar skemmti með söng. Og söngur undir stjórn R. H. Ragnars, séra Egill H. Fáfnis, forseti Bárunnar, var forseti dagsins.

Öll inntekt fyrir þessa samkomu var gefin til elliheimilisins að Mountain, inntektin var $423.63.

Fundur var haldinn í Bárunni í kirkjukjallaranum að Mountain 21. júlí, var þessi fundur aðallega kallaður saman til að vita hvað mikið félagsmenn vildu leggja í samsætissjóð til Mr. og Mrs. R. H. Ragnar, sem voru kvödd að Garðar, áður en þau lögðu af stað til Íslands. Voru fundarmenn með því, að sjálfsagt væri að Báran legði í þann sjóð, var því ákveðið að Báran gæfi $100.00 í sjóð þennan.

Þann 23. júlí var samsæti haldið að Garðar, í samkomuhúsinu þar, fyrir Mr. og Mrs. Ragnar H. Ragnar, til að kveðja þau áður en þau legðu af stað til Íslands. Var samkomuhúsið fullskipað af fólki, var gott „Program" með ræðuhöldum og söng, var þetta ágætt samsæti í alla staði og öllum til ánægju og skemtunnar. Var séra Egill forseti samsætisins; voru þeim hjónum gefnar margar gjafir, þar á meðal var þeim gefin nafnabók, þar sem allir viðstaddir skrifuðu nöfn sín í og fóru þau með mörg nöfn heim til Íslands í þeirri bók.

Þann 23. nóvember fóru þrír Bárumenn til Brown, Man., þeir séra Egill Fáfnis, H. T. Hjaltalín og G. J. Jónasson og höfðu samkomu í samkomuhúsinu þar við góða aðsókn og ágætar viðtökur; var þessi samkoma bæði arðberandi og skemmtileg, var allur ágóðinn af þessari samkomu gefinn til elliheimilisins að Mountain.

Á árinu hafa dáið fjórir Báru meðlimir þeir: Júlíus A. Björnson, Ben. Helgason, Einar G. Eiríksson og S. A. Stevenson.

Nýir meðlimir, sem gengið hafa í Báruna á árinu, eru: Skafti T. Indriðason, Tryggvi Johnson, Arnor Simundson og Wm. Austfjörd.

Alt starfið í Bárunni á árinu hefir gengið vel, þó er sérstaklega eitt, sem okkur finst að hafi verið ábótavant hjá okkur og það er að ekki hefir verið nein íslensku kensla í bygðinni þetta ár og er það illa farið, vonumst til að geta bætt úr því á komandi sumri.

G. J. Jónasson, forseti
H. B. Grímson, skrifari

Dr. Beck lagði einnig til, að skýrslunni sé veitt móttaka af þinginu, Trausti Ísfeld studdi, samþykkt.

Skýrsla deildarinnar „Aldan" var lesin af ritara.

**Ársskýrsla Öldunnar yfir árið 1948**

Árið 1948 hefir þjóðræknisdeildin „Aldan" í Blaine, Wash., haldið fjóra aðalfundi og tvo stjórnarnefndarfundi.

Almenna skemmtisamkomu hélt deildin 17. júní, tókst hún vel að almanna rómi og aðsókn var allgóð.

Elliheimilismálið, sem hafið var til framkvæmda fyrir atbeina deildarinnar og er hennar áhugamál, er nú komið á þann rekspöl í höndum hinnar löggiltu félagsstofnunar, að nú er fullgerð bygging með öllum þægindum og fyrirkomulagi af nýjustu gerð fyrir 30 vistmenn auk vinnukrafts, og er það stórt ánægjuefni.

Deildin harmar fráfall fjögurra góðra meðlima, sem látist hafa á árinu, eru það: Jakobína Björnsson í Blaine, Þorsteinn Goodman í Mariette, Áskell Brandson í grend við Blaine, og Halldór Björnsson, sem lést í Hallson, N. D. Þangað flutti hann á heimili dóttur sinnar, þegar Jakobína kona hans dó.

Sérstakt hrygðarefni er það, að forsetinn, séra Albert Kristjánsson hefir átt við vanheilsu að búa alt hið nýliðna ár

og er sem stendur á sjúkrahúsi; er það einlæg ósk og von, að hann komist sem fyrst til heilsu.

Meðlimatala er nú 49 og er það 7 færra en í byrjun 1948.

A. E. Kristjánsson, forseti
Dagbjört Vopnfjörd, ritari

Þjóðræknisdeildin „Aldan" í Blaine, Washington sendir hinu þrítugasta ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi sínar alúðarfylstu heillaóskir.

Dagsett 15. febrúar 1948
A. E. Kristjánsson, forseti
Dagbjört Vopnfjörd, ritari

Tillaga Jóns Ólafssonar, studd af Mrs. Backmann. að þingið veiti skýrslunni viðtöku, samþykkt.

Skýrsla deildarinnar „Frón" var lesin af ritara.

**Skýrsla deildarinnar „Frón" fyrir árið 1948**

Deildin stóð fyrir tveimur samkomum og tveimur skemtifundum. Frónsmótið var haldið í Fyrstu lút. kirkju, 24. febrúar s.l. Ræðumaður var Mr. Árni Helgason frá Chicago, en aðrir sem skemtu voru Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Ragnar Stefánsson, Mrs. Rósa Hermannson Vernon og Miss Thora Ásgeirsson. Mótið sóttu um 400 manns. Hin samkoman var haldin í G. T. húsinu 17. maí s.l. Þar flutti Guttormur skáld Guttormsson ræðu um viðhald íslenskrar tungu í Vesturheimi, en aðrir sem skemtu á samkomunni voru Lúðvík Kristjánsson, Mrs. Rósa Hermannson Vernon og Mrs. J. Vermette. Um hundrað manns sóttu þessa samkomu.

Þann 5. apríl s.l. var skemtifundur haldinn í G. T. húsinu, þar fór fram kappræða, sem þessir tóku þátt í: Sigurður Vopnfjörð og Gunnar Sæmundsson frá Árborg og Próf. Tryggvi J. Oleson og Heimir Thorgrimson. Kappræðuefnið var: „Eru V.-Íslendingar að úrkynjast", og þótti tímabært. Seinni skemtifundurinn fylgdi ársfundinum, sem haldinn var í G. T. húsinu 6. des. s.l., þar flutti séra Valdimar J. Eylands ræðu um dvöl sína á Íslandi síðastliðið ár, en þau systkinin Evelyn og Albert Thorvaldson skemtu með söng og pianóspili. Um 60 manns sóttu hvorn þennan fund. Aðsókn að skemtunum deildarinnar á árinu hefir því verið rúmlega 600 manns.

Meðlimatalan er um 180 og hefir sú tala lítið breyst síðustu tvö eða þrjú ár.

Á ársfundinum 6. des., s.l. lagði féhirðir fram skýrslu þá sem hér fylgir:

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Í sjóði | $101.47 |
| Meðlimagjöld | 158.00 |
| Inntekt á Frónsmóti | 478.25 |
| Samskot á fundum | 28.21 |
| Samkoma 17 maí | 50.50 |
| Alls | $816.43 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Kostnaður við Frónsmótið | $336.85 |
| Kostnaður við fundarhöld | 20.00 |
| Kostnaður við samkomu 17. maí | 96.69 |
| Meðlimagjöld til Þjóðræknisfélagsins | 86.50 |
| Nýjar bækur til lestrarfélagsins | 153.90 |
| Innheimtulaun, eldsábyrgð, frímerki o. sf. | 25.69 |
| Alls | $719.63 |
| Í sjóði | 96.80 |
| | $816.43 |

Frón hefir starfrækt bókasafn Þjóðræknisfélagsins á svipaðan hátt og undanfarið og hefir Davíð Björnsson verið bókavörður. Í haust barst okkur bókagjöf til safnsins og kom hún frá Mrs. Aurora Wodd, 403 Wardlaw Ave., Winnipeg. Bækurnar voru gefnar í minningu um Mrs. Herdísi Bray, móður gefandans.

Winnipeg, 21. feb. 1949
Heimir Thorgrimson, ritari

Tillaga Miss Elínar Hall, studd af Mrs. P. S. Pálsson, að þingið veitti skýrslunni móttöku.

Skýrsla deildarinnar „Lundar" lesin af Mrs. Sveinsson.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar „Lundar"**

Þessi skýrsla verður stutt, því miður hefir deildin ekki starfað mikið á þessu ári. Til þess hafa legið ýmsar ástæður.

Íslenskukenslu var haldið áfram í fyrra vetur fram í apríl. Barnasöngflokkurinn söng á samkomu Lestrarfélagsins, undir stjórn Vigfúsar Guttormssonar, og tvær stúlkur höfðu upplestra á íslensku.

Í vetur hefir ekki verið nein íslensku kensla, aðalástæðan var sú, að húspláss var ekki til. Nýi skólinn var ekki tekinn til afnota fyrr en eftir nýár. (Ég gat um í fyrra, að skóli bæjarins brann). Það

var gerð tilraun til að safna börnunum saman til kenslu nýlega, en það varð ekkert úr því, þótti of áliðið vetrar.

Fjórir fundir hafa verið haldnir á árinu. Meðlimatala er 35. Einn merkur meðlimur deildarinnar dó á árinu, Einar Eyford. Var hann ágætur stuðningsmaður alls, sem íslenskt var.

Deildin gerði ráðstafanir fyrir komu frú Elínborgar Lárusdóttur, hins merka rithöfundar, var öllum óblandin ánægja að komu hennar.

Á ársfundi voru kosnir í embætti fyrir 1949, stjórnarnefnd: Forseti Ágúst Eyjólfsson, varaforseti Torfi Torfason, skrifari Ljótun Sveinson, féhirðir Mrs. Hofteig. Erindrekar á þjóðræknisþing: Mrs. Sveinson, (til vara Mrs. Eyjólfsson) og Mrs. Pálsson.

Óskum við svo Þjóðræknisfélaginu allrar blessunar og góðs gengis. Finst mér, að æskilegt væri, að meiri samvinna væri á milli deildanna og Þjóðræknisfélagsins, ef hægt væri að koma því við, mundi það auka áhuga fyrir málefninu.

L. Sveinson, skrifari

Tillaga Dr. Beck, studd af Jóni Ólasyni, að þingið veiti skýrslunni móttöku, samþykkt.

**Skýrsla deildarinnar „Iðunn" í Leslie, Sask.**

Herra forseti: —

Aðeins örstutt skýrsla frá „Iðunni" í Leslie til að láta ykkur vita, að við munum enn eftir þinginu og „þjóðrækninni".

Opinbert starf deildarinnar mjög lítið, aðeins stuðningur sá, er kvenfélagi í Elfros hefir verið veittur af deildarinnar hálfu í Magnúsar Bjarnasonar minnisvarðamálinu.

Mrs. Hornfjörð sendi ykkur skýrslu yfir hvernig það stendur. Verkinu ekki alveg lokið enn.

Fjárhagur okkar deildar stendur þannig: Inntektir á áriu að viðlögðum fyrra árs sjóði $43.82 útgjöld $13.86; í sjóði um áramót 29.96.

Okkur þykir leitt, að koma því ekki við, að senda fulltrúa á þingið, en við lifum hér allir í sællífi, erum orðnir feitir og eigum bágt með að standa í ferðalögum.

Megi vit og vandvirkni skína skærast í verkum þingsins. — Með bestu kveðju.

Rósm. Árnason

Tillaga G. J. Jónasson, studd af J. Ólason að skýrslunni sé veitt móttaka, samþykt.

Skýrsla deildarinnar „Brúin" í Selkirk, lesin af Trausta Ísfeld.

**Skýrsla deildarinnar „Brúin" í Selkirk**

Yfirlit yfir gjörðir deildarinnar á liðnu ári 1948. Starfsfundir 6 að tölu, þar að auki 2 arðberandi samkomur og 1 útbreiðslu og skemtifundur, sem var haldinn á síðastliðnu vori. Forseti deildarinnar, Einar Magnússon, stjórnaði samkomunni. Lýsti hann með vel völdum orðum starfi deildarinnar og hversu þýðingarmikið það væri að vinna sleitulaust að framþróun félagsins. Næst kallaði hann forseta aðalfélagsins, séra Philip M. Pétursson. Hvatti hann fólk til að efla þennan félagsskap og viðhalda íslensku máli, Það væri áríðandi að viðhalda ættararfi vor um og verja hann frá glötun. Næst var séra Eiríkur Brynjólfsson kallaður fram með ræðu, var það snjalt erindi, sem hann flutti, dáðist hann að hvað Íslendingar töluðu mál sitt hreint og óblandað. Næst var hin velþekta söngkona frú Rósa Hermannson Vernon beðin að koma fram, var hún aðstoðuð af systur sinni, Mrs. E. Ísfeld, og hlaut hún aðdáun hjá öllum tilheyrendum, og var hvað eftir annað kölluð fram, enda var hún fús á að skemta. Báðar eru þær systur Íslendingum til stór sóma, hvar sem þær koma fram. Óefað er skarð fyrir skildi, er þær vanta í hópinn. Við ættum sem oftast að hafa þær þegar um mannfagnað er að ræða. Næst var kölluð Mrs. H. F. Danielson, lýsti hún starfsemi íslensku kenslunnar, sem hún hefir veitt forstöðu í bygðum Íslendinga, var það langt mál, sem innibatt viðhald og vaxtarþroska íslenskrar tungu. Næst voru sýndar íslenskar myndir, sýndar af séra Philip M. Péturssyni. Þrátt fyrir marga erfiðleika á leiðum, hefir þó mál okkar að miklu leyti lifað fram til þessa tíma og miklar líkur eru til að íslensk tunga eigi hér enn langa lífdaga í þessu landi. Enda hefir vinskapur tekist við heimaþjóð vora. Má því segja, að brúaðir séu Atlantsálar og er annar brúarsporðurinn reistur á draumalandi íslenskrar fjalladýrðar En aflstuðullinn er reistur á strönd Vínlands inni í landnámi Leifs Eiríkssonar. Meiri kynning við ættlandið meinar lengri lífdaga íslenska málinu til viðhalds í Vestur heimi. Ég mintist á aflstuðulinn er vesturendi brúarinnar hvílir á; er það táknmynd af tilvonandi kenslustól í norrænum fræðum, sem reistur verður í veglegustu mentastofnun Manitobafylkis. Hér eru ís-

lenskir menn að verki, sannnefndir ljósberarar á ferð yfir eyðimörk fáviskunnar, veitandi ljósi og þekkingu, sem engum er unt fram hjá að fara án hrifningar af verkum þeirra. Þó þeir hverfi af sviði þá samt geymast nöfn þeirra og minning í þakklátum hjörtum þjóðarinnar uns íslensk fjöll hrynja.

Um stund yfirgaf ég gjörðir deildarinnar, „Brúin", mig ber að hvar ég áður var. Á liðnu ári bættust við 12 nýir meðlimir en engir dóu. Á þessu ári byrjuðum við að kenna söng, var hr. Gunnar Erlendson frá Winnipeg ráðinn fyrir það starf. Hann myndaði unglingaflokk, og kemur einu sinni í viku til að æfa þau. Mrs. Erlendson kemur með manni sínum til að spila á hljóðfærið við æfingarnar. Þetta hefir töluverðan kostnað í för með sér sem gefur að skilja. En ekki verður í alt horft. Herra Einar Magnússon, forseti deildarinnar, hefir brennadi áhuga fyrir þessu máli. Ef allar deildir ættu svo ötula forvígismenn sem hann er, mundi vel farnast þjóðræknisstarfið.

Ég gat um hér að framan skemtisamkomu á síðastliðnu vori. „Prógrams" fólkið var alt frá Winnipeg og allir leystu sín hlutverk af hendi með mestu snild. Við viljum votta því besta þakklæti fyrir.

Deildin telur nú 48 gjaldandi meðlimi. Fjárhagur deildarinnar er sem hér fylgir:

| | |
|---|---|
| Í banka frá 1947 | $ 61.06 |
| Inntektir á árinu 1948 | 196.45 |
| Samtals | $251.51 |
| Útgjöld á árinu 1948 | 160.37 |
| Við síðustu árslok 1948 í banka | 97.14 |

Einar Magnússon, forseti

Trausti Ísfeld, ritari.

Trausti Ísfeld lagði til að þingið veitti skýrslunni móttöku, stutt af Jóni Ólason, samþykkt.

**Fjárhags Ársskýrsla deildarinnar Esju í Árborg**

| | | |
|---|---|---|
| Í sjóði 1. janúar 1948 | | $124.35 |
| Inntektir á árinu | | |
| Meðlimagjöld | $78.00 | |
| Aðrar tekjur | 3.00 | 81.00 |
| | Samtals | $205.35 |

ÚTGJÖLD Á ÁRINU:

| | | |
|---|---|---|
| Til Þjóðræknisfélagsins | $40.50 | |
| Eldsábyrgð | 12.00 | |
| Bókavörður | 15.00 | |
| Bókakaup | 76.05 | 143.55 |
| Afgangur í sjóði 1. janúar 1949 | | $ 61.80 |

Dagsett 10. febrúar 1949
Arborg, Man.

G. O. EINARSSON,
ritari.

Tillaga Swein Swainssonar studd af Einari Magnússyni, að þingið veiti skýrslunni móttöku, samþykkt.

**Minnisvarðaskýrsla**
**J. Magnúsar Bjarnasonar**

Elfros, Sask., 9. febrúar 1949

Rev. H. E. Johnson,
Skrifari „Þjóðræknisfélagsins"
Lundar, Man.

Kæri herra. —

Þar sem nú fer að líða nálægt þingi Þjóðræknisfélagsins, og óvíst er, hvort að nokkur héðan að vestan, sem er kunnugt um J. Magnús Bjarnason, minnisvarðamálið, verði þar, ætla ég hér með að senda þér nokkrar skýringar á því máli, ef ske kynni, að það mál kæmi upp á þingi.

Ég sendi þér hér með afrit af inntektalista samandreginn úr kvittanabókum, lista yfir útgjöld og svo samandrátt af öllu saman. Þessir reikningar hafa verið yfirfarnir af Rósmundi Árnason og Mrs. Guðmundson með mér, og eru viðurkendir að vera réttir. Eins og þessi reikningur sýnir þá er afgangs í sjóði $209.61, og er þessi upphæð geymd undir umsjón kvenfélagsins. Álitið er að það þurfi að gjöra meira við reitina seinna.

Mrs. Rósa Vernon kom hingað vestur og hélt söngsamkomur í Elfros og Wynyard til arðs fyrir sjóðinn, og söng einnig við afhjúpunarathöfnina, og munu samkomurnar lengi minnisstæðar.

Dr. Rúnólfur Marteinsson var fenginn til að stýra afhjúpunarathöfninni og gjörði það endurgjaldslaust, og var það hans góða tillag til minnisvarðans.

Dr. Richard Beck var einnig viðstaddur með sína góðu aðstoð, bæði við athöfnina og söngsamkomur Mrs. Vernons, bæði í Elfros og Wynyard, og þáði aðeins um hálfan ferðakostnað.

Nefndin hér vestra er í mestu þakklætisskuld við Dr. Kristján J. Austmann fyr-

ir alla hans miklu hjálp — útvegun og gjörð minnisvarðans og fleira.

Fyrir hönd kvenfélagsins í Elfros vil ég þakka öllum þeim, sem hafa stutt þetta málefni — bæði nefndum og ónefndum.

Með vinsemd
LAUFEY HORNFORD.

**RECEIPTS,**

**The J. Magnús Bjarnason, Memorial Fund**

| | |
|---|---|
| Receipt book no. 1 | $ 81.75 |
| — — — 2 | 322.25 |
| — — — 3 | 38.00 |
| — — — 4 | 177.40 |
| — — — 4 | 39.00 |
| — — — 5 | 149.25 |
| — — — 5 | 151.00 |
| Total | $ 958.65 |
| From Mrs. Vernon's Concert at Elfros | 48.75 |
| From Mrs. Vernon's Concert at Wynyard | 48.50 |
| Total Receipts | $1055.90 |

**Statement**

| | |
|---|---|
| Total Receipts | $1055.90 |
| Total Expenses | 846.29 |
| Balance Cash on hand | $ 209.61 |

Ég hefi yfirfarið alla reikninga þessu viðvíkjandi og fundið alt í góðu lagi og rétt.

Elfros, Sask., 15. febrúar 1949
Virðingarfylst,
R. ÁRNASON.

**Itemized Expenses**

| | |
|---|---|
| Memorial Stone | $300.00 |
| Bronze Tablet | 154.40 |
| Freight from Winnipeg | 120.00 |
| | $574.40 |

**Work in Cemetery**

| | |
|---|---|
| Excavating | $15.00 |
| Gravel — Hauling | 14.00 |
| Water — Hauling | 3.00 |
| Mr. Skaftfeld — for Cement work and fare | 60.00 |
| | $92.00 |

**Material required**

| | |
|---|---|
| Cement | $ 39.27 |
| Lumber | 13.08 |
| | 52.35 |
| Total Cost of Memorial | $718.75 |

**Other Expenses**

| | | |
|---|---|---|
| Adverstising | | |
| Viking Press | $34.15 | |
| Columbia Press | 23.73 | $ 63.88 |
| Stationery, Stamps, and Money order | | 5.44 |
| Telephone & Telegram | | 5.22 |
| Travelling Expenses & Hall Rent | | 53.00 |
| | | $127.54 |
| Total Expenses | | $846.29 |

Tillaga Dr. Beck studd af Jóni Ólasyni að þingið veiti skýrslunni móttöku með þökk, samþykkt.

**Skýrsla frá deildinni Snæfell, Churchbridge, Sask.**

Churchbridge, Sask., 22. febrúar 1949
Heiðraða Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi.

Ég hefi verið beðinn að bera fram afsökun fyrir hönd þjóðræknisdeildinnar „Snæfell" á því, að hún sjái sér ekki fært að senda fulltrúa á yfirstandandi þjóðræknisþing.

Þjóðræknismenn eru hér fáir: Við höfum beðið mikinn skaða á félagsskap okkar hér með burtflutningi manna, og á annan hátt, viljum vér því biðja afsökunar á því að geta ekki sent erindreka í þetta sinn.

Mig langar til að minnast á atriði, sem ég tel hafa mikla þýðingu.

Dr. Beck heimsótti okkur á liðnu sumri; áttum við mjög gleðiríka og uppbyggilega stund með honum, erum við honum mjög þakklát fyrir komuna.

Mér virðist mjög heppilegt og afar nauðsynlegt ef unt væri að Þjóðræknisfélagið stæði fyrir því, að einhver heimsæki þessi litlu þjóðarbrot á hverju sumri minsta kosti einu sinni.

Það myndi verða okkur og öðrum deildum í svipuðu ásigkomulagi mikið gleðiefni.

Ég vænti þess, að þetta atriði verði rækilega rætt og ráðstöfun gerð um það, að þetta geti orðið að ákvörðun og fastri reglu.

Með heilla árnan Þjóðræknisfélaginu, og störfum þess.

S. S. Christopherson.

Tillaga Dr. Beck, studd af Guðmann Levy að þingið veiti skýrslunni móttöku, samþykkt.

Ársskýrsla Canadian Club, var ekki lögð fram á þinginu sökum þess, að sú deild hefir skipt um ársfundarhald. Kemur væntanlega fram á næsta þingi.

J. J. Bildfell skýrði frá, að hann hefði til meðferðar bók, sem herra Lárus Scheving á Akranesi á Íslandi hefði sent vestur um haf, með þeirri ósk, að Íslendingar í Vesturheimi rituðu eiginhandarnöfn sín í hana, ásamt heimilisfangi sínu hér vestra og uppruna stað á Íslandi ásamt nánasta ættfólki. Þegar svo að bókin væri fullrituð eða svo mörg nöfn, sem fengjust í hana komin, þá ætti hún að sendast heim til geymslu á skjalasafni Íslands. Bíldfell fór nokkrum orðum um málið og hvatti fólk til að verða vel við svo drengilegri málaleitun. Hið sama gerði Dr. Beck.

Stungið upp á af Jóni Ólasyni, stutt af Mrs. Backmann, að þriggja manna þingnefnd sé sett í málið , samþykkt.
Í nefndina skipaði forseti:

Jón Ólason,
Trausta Ísfeld,
Gunnar Sæmundsson.

Klukkan þrjú var tekið á móti sendiherra Íslands og frú hans, sem þá voru komin á fund. Flutti sendiherra, Thor Thors, prýðilegt ávarp til þingsins og Vestur Íslendinga frá sjálfum sér.

Auk þess flutti hann ávarp, fagurt og vingjarnlegt frá forseta Íslands, hr. Sveini Björnssyni.

Kveðjur og skeyti til þjóðræknisþingsins frá forseta Íslands,
hr. Sveini Björnssyni,
1. febrúar 1949.

Á hverju ári leitar hugurinn til yðar Vestur-Íslendinga, er þér komið saman til þings í Góubyrjun. Vér dáumst að trygð yðar við tungu vora og land. Í þetta skipti gerum vér það með sérstökum þakkarhug, er þér eruð að lyfta því Grettistaki að fá stofnað prófessorsembætti í íslenskum fræðum við Manitobaháskólann, sem verða mun til þess að halda við iðkun þeirra fræða á virðulegan og happadrjúgan hátt á þeim stað, sem svo margir góðir Íslendingar og fólk af íslensku bergi brotið hefir lifað og starfað sjálfu sér til sæmdar og Íslandi til gagns.

Af einlægum hug sendi ég yður öllum persónulega, sem viðstaddir eru, og öllum Vestur-Íslendingum hlýjar kveðjur og árnaðaróskir. Ennfremur Þjóðræknisfélaginu og þeim samtökum öðrum, sem starfa að því að halda tengslum við föðurlandið forna og auka veg og virðingu móðurmálsins og íslensku þjóðarinnar.

Ávarp frá Bjarna Benediktssyni, utanríkisráðherra til fulltrúa á 30. ársþingi Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga 1. febrúar 1949.

Virðulega samkoma!

Mér er það mikið ánægjuefni að geta sent yður mínar hlýjustu kveðjur á þessum merka áfanga í sögu þjóðræknissamtaka Vestur-Íslendinga.

Íslensku þjóðinni hefir verið mikill styrkur að þeirri vináttu og hjálpsemi, sem hún hefir jafnan átt vísa hjá Íslendingum í Vesturheimi. Að hinu hefir þó verið enn meiri styrkur, hversu myndarlega Íslendingum hefir tekist að hefjast frá fátækt til bjargálna og mannvirðinga í hinu nýja umhverfi sínu. Hefir það vakið stolt heimaþjóðarinnar og verið henni styrkur í baráttunni fyrir auknu sjálfstæði og bættum kjörum, að frændurnir vestanhafs hafa sótt fram af kappi og dugnaði og aflað sér álits og virðingar. En **mest** þykir oss Íslendingum þó um það vert, að Vestur-Íslendingar halda fast við þjóðerni sitt og menningararf og telja sér að því sóma, að eiga til Íslendinga að telja.

Af þessum ástæðum verða kveðjur þær, sem vér nú sendum vestur um hafið, meir en venjulegar vinarkveðjur. Þær verða eins og kveðjur þær, sem **bróðir** sendir **bróður.**

Frá herra Eysteini Jónssyni menntamálaráðherra.

Ávarp.

Mér er sönn ánægja, að fá tækifæri til þess að votta Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi þakklæti mitt og viðurkenningu fyrir heillaríkt og ágætt starf þess í þágu íslensks þjóðernis og íslenskrar menningar vestan hafs um þrjátíu ára skeið.

Stofnun þessa félags ber þögult vitni um þróttmikla hugsjónamenn, sem gengu til félagsstarfs vonglaðir og fórnfúsir, menn, sem vissu, að á miklu reið, að Íslendingar varðveittu þjóðerni sitt og slitnuðu ekki úr tengslum við þjóðlega menningu sína, þótt tungan breyttist og viðfangsefni væru nýju landi helguð. Þeir höfðu sjálfir sýnt það og sannað, með þjóðhollu og mikilsvirtu starfi fyrir hið nýja föðurland sitt, að góður Íslendingur er góður þegn hvers

þess lands, er hann kýs sér að heimkynni. Mér skilst, að hugsjón Þjóðræknisfélagsins sé og hafi frá öndverðu verið sú, að glæða metnað Íslendinga vestra, auka þekkingu þeirra og ást á íslenskri tungu, sögu og bókmentum og treysta hollustu þeirra við þjóðerni sitt, með það fyrir augum að styrkja um leið traust þeirra á sjálfum sér, efla sjálfsvirðingu þeirra með þessu öllu, aðstöðu þeirra til þess að starfa fyrir fósturland sitt í röð hinna fremstu og bestu þegna þess. Í þessa átt hefir félagið starfað með ýmsum hætti í þrjátíu ár. Og einmitt á þessum tímamótum hefir það náð mikilsverðum áfanga er sýnir, að enn er hér starfað af fylsta trúnaði við þá hugsjón, er í upphafi hóf þetta félag og gaf því sinn mesta styrk.

Stofnun kennarastóls í íslenskum fræðum við Manitobaháskóla er efalaust mesta þrekvirki félagsins, og mun um langan aldur varpa ljóma á götu þess, vera höfuðsómi Íslendinga vestan hafs og hinn mesti styrkur íslensku þjóðerni og íslenskri menningu. Og áhrif þessarar stofnunar munu ná miklu víðar en til Íslendinga einna. Áhuginn á norrænum, íslenskum fræðum er nú hvergi meiri utan Norðurlanda en meðal engilsaxneskra þjóða og það gefur þessum nýja íslenska kennarastóli Þjóðræknisfélagsins stórum aukið gildi. Allir þeir landar, sem hér hafa lagt fé til, meira eða minna, hafa með því unnið íslenskri menningu hið mesta gagn.

Að svo mæltu vil ég færa Þjóðræknisfélaginu bestu þakkir og hamingjuóskir á þessum tímamótum og óska því allra heilla framvegis.

Ávarp frá forseta Háskóla Íslands, Alexander Jóhannessyni,

Kveðja frá Háskóla Íslands.

Háskóli Íslands sendir þrítugasta Þjóðræknisþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðarkveðju sína og fagnar því, að prófessorsembætti í íslenskum fræðum verður nú stofnað við Manitobaháskólann fyrir forgöngu þjóðhollra Vestur-Íslendinga, sem af miklum höfðingsskap hafa lagt fram fé til þessa. Háskóli Íslands lítur svo á, að með stofnun þessa kennarastóls sé mjög mikilsvert spor stigið til varðveislu íslenskrar tungu í Vesturheimi og til þess að treysta ættarböndin milli Íslendinga beggja megin hafsins.

Vararitari las upp árnaðaróska símskeyti frá Sigurgeir biskup Sigurðssyni, Ófeigi J. Ófeigssyni, lækni, séra Friðrik Hallgrímssyni, Kristjáni Gunnlaugssyni og Sigurði Sigurðssyni.

Þjóðræknisfélag Íslendinga sendir Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi vinarkveðju og innilegar óskir um heillaríkan árangur af göfugu starfi til varðveislu tungu vorri og þjóðerni meðal Íslendinga vestan hafs.

Ennfremur símskeyti frá Sigurði Þórðarsyni, frú Guðrúnu og séra Eiríki Brynjólfssyni og Helga Briem frá Stokkhólmi — öll hlýhugar og vingjarnleg í garð þings ins og allra Vestur-Íslendinga.

Bið þig að flytja Þjóðræknisfélaginu og 30. þingi þess mínar hjartanlegustu kveðjur og óskir um áframhaldandi blessunarríkt starf. — Kærarkveðjur.

Sig. Þórðarson.

Innilegar heillaóskir, þakkir og kveðjur. Guð blessi Þjóðræknisfélagið, þingið og alla Vestur-Íslendinga.

Guðrún og Eiríkur Brynjólfsson.

Sendi Þjóðræknisfélaginu og löndunum vestra hugheilar árnaðaróskir, kærar kveðjur og þakkir fyrir góða kynningu á dvalarárunum vestra.

Helgi P. Briem

Forseti las upp bréf frá forseta háskólans í Norður Dakota, Dr. John C. West til þingsins og Íslendinga, mjög vingjarnlegt og elskulegt bréf, þar sem að hann tekur fram, að það væri fulltrúi háskólans á þinginu.

University of North Dakota
Grand Forks.

February 19, 1949

Rev. Philip M. Petursson
President, Icelandic National League
Winnipeg, Manitoba.

Dear Rev. Petursson.

I have been informed that the Icelandic National League will hold its 30th annual convention in Winnipeg during the coming week, and as an Honorary Member of your splendid organization I do not wish to let this important milestone in its history go by without extending my greetings and good wishes. I have, therefore, asked Dr. Richard Beck of our faculty to represent the University and myself at the convention.

I can assure you that I value very highly my Honorary Membership in the

Icelandic National League, both because of its standing and its important cultural work for three decades and also because of my cherished associations with many people of Icelandic birth or origin during a long public career in the State of North Dakota, where the Icelanders have, as is well known, made an excellent record and contributed much to the progress and cultural advancement of the State. It is equally widely known that the University of North Dakota has a number of graduates of Icelandic origin among its most illustrious alumni.

Let me further say on this occasion that Dr. Beck's position of trust and leadership in the Icelandic National League for a number of years has been to us at the University a matter of much gratification and a source of genuine pride in his achievements.

With cordial regards and best wishes for continued success to yourself, your Executive Committee, and your membership as a whole.

Sincerely yours,
John C. West
President.

Dr. Beck flutti kveðjur og heillaóskir háskólans og vék að kenslu skólans í norrænum fræðum og íslensku. Einnig flutti hann afmælisóskir og kveðjur frá fræða félaginu The Society for Advancement of Scandinavian Study. En hann er fyrverandi forseti þess félagsskapar.

Forseti þakkaði ávörpin, kveðjurnar og skeytin með vel völdum orðum og á viðeigandi hátt.

Formaður kjörbréfanefndar gat þess að erindrekinn frá Lundar, Mrs. L. Sveinson, hefði ekki kjörbréf, og lagði til að henni væri veitt full þingréttindi með 20 atkvæða valdi. Kvað hana löglega tilnefnda og kjörna af deild sinni, en ekki náðst í tíma til embættismanna deildarinnar til að undirrita kjörbréfið. Var sú tillaga kjörbréfanefndarinnar samþykkt.

**Byggingarmál.**

Mál það var ekki tekið á skrá dagskrárnefndar, en forseti benti á að það þyrfti að taka það til yfirvegunar á þinginu. S. Baldvinson og Ásta Sigurðsson, studdu að byggingarmálið sé tekið á dagskrá þingsins, samþykkt.

**Mál sett í nefndir.**

Útbreiðslumál sett í fimm manna nefnd, samkvæmt tillögu J. J. Bildfell, sem var studd af Mrs. Backmann, í hana skipaðir:

Dr. Richard Beck,
Böðvar Jakobsson,
Trausti Ísfeld,
Sigurður Baldvinsson,
Mrs. L. Sveinson.

**Fræðslumálanefnd.**

Tillaga Mrs. Backmann, sem Magnús Elíasson studdi, að í hana séu fimm menn skipaðir, samþykkt. Í hana skipaði forseti:

Mrs. Ingibjörgu Jónsson,
Próf. T. J. Oleson,
Mrs. Sigríði Sigurðsson,
G. J. Jónasson,
Mrs. Hólmfríði Danielson.

**Fjármálanefnd.**

Tillaga Miss Elín Hall, sem Mrs. Jóhanna Pétursson studdi og sem var samþykkt. að forseti setji þrjá menn í þá nefnd. Forseti skipaði þá:

Einar Magnússon,
Hallgrím Sigurðsson,
Ólaf Þorsteinsson.

**Samvinnumál við Ísland.**

G. J. Jónasson lagði til, og Mrs. P. S. Pálsson studdi, að í þá nefnd skipi forseti fimm menn, samþykkt. Forseti skipaði í nefndina:

Séra Valdimar J. Eylands,
Dr. Richard Beck,
G. L. Jóhannsson,
Sigurð Baldvinson,
G. J. Jónasson.

**Útgáfumál.**

Samkvæmt uppástungu J. J. Bíldfell, studdri af G. J. Jónassyni, og sem var samþykkt, setti forseti þessa:

Dr. Sig. J. Jóhannesson,
Mrs. P. S. Pálsson.

**Kennaraembætti í íslensku við Háskóla Manitobafylkis.**

J. J. Bíldfell lagði til, Mrs. Jónsson studdi, að þrír menn séu skipaðir í þá nefnd, samþykkt. Forseti skipaði þessa:

Gunnar Sæmundsson,
Einar Magnússon,
Próf. T. J. Oleson.

**Minjasafnsmál.**

Það mál hafði ekki verið tekið á dagskrá þingsins, af dagskrárnefndinni, en þótti óviðeigandi að láta það falla í gleymskunnar dá, lagði B. E. Johnson til og Mrs. P. S. Pálsson studdi, að þingið taki það á dagskrá sína, og setji forseti í það þriggja manna nefnd, samþykkt. Forseti skipaði þessa í nefndina:

Mr. B. E. Johnson,
Davíð Björnsson,
Magnús Gíslason.

**Ný mál.**

Mrs. Backmann lagði til, Jón Ólason studdi, að forseti skipi þriggja manna nefnd til að veita móttöku nýjum málum, sem fram kynnu að koma á þinginu, samþykkt. Í nefndina setti forseti:

Mrs. Ingibjörgu Jónsson,
Svönu Sveinsson,
G. J. Jónasson.

Þegar hér var komið málum var fundar tími úti og fundi frestað til klukkan 9:30 fyrir hádegi næsta dag 22. febrúar.

Að kveldi fyrsta þingdagsins hélt Icelandic Canadian Club sína árlegu samkomu. Fór hún prýðilega fram og var clúbbnum til sóma. Aðalatriðið á skemtiskránni var ræða, er Kristján J. Austmann læknir flutti um hin dýpri menningaráhrif íslenskrar tungu, erindi vel hugsað og vel flutt. Þorbjörn Þorlákson læknir talaði um kennaraembætti í íslensku við Manitobaháskólann, skýrt og skemtilegt erindi eins og þeim manni er lagið. Forseti samkomunnar, Axel Vopnfjörð kennari flutti greinargóða inngangsræðu.

Með músik skemtu, frú Pearl Johnson, Erlingur Eggertson og ungfrú Janice Myers. The Icelandic Canadian Club hefir tekist að koma ár sinni svo vel fyrir borð, að því er þessar árlegu samkomur clúbbsins snertir, að eftir þeim er nú beðið með óþreyju.

Þriðji fundur þingsins settur kl. 10 f. h. 22. febrúar, fundargjörningur frá síðasta fundi lesinn og samþykktur. Forseti benti á að dagskrárnefndinni hefði láðst að setja tvö mál á dagskrá, sem á þyrfti að minnast. Það væri minnisvarðamál J. Magnúsar Bjarnasonar, og styrktarsjóðsmál Agnesar Sigurðssonar.

Jón Ólason lagði til og Mrs. Sveinsson studdi, að málin séu tekin upp á dagskrá og að í þau séu sett þriggja manna nefnd, samþykkt. Í nefndina setti forseti:

Mrs. F. J. Kristjánsson,
Mrs. B. E. Johnson,
Trausti Ísfeld.

Formaður kjörbréfanefndar tilkynti, að til þings væri komin Mrs. Margrét Jósefsson frá deildinni „Grund", kjörin erindreki með 15 atkvæði, og lagði til að henni væri veitt full þingréttindi, samþykkt.

**Þingnefndarálitið í eiginrithandar málinu.**

Formaður nefndarinnar lagði það fram, en eftir nokkrar umræður var því vísað til nefndarinnar aftur, til frekari athugunar.

Forseti tilkynti, að hann hefði ákveðið með leyfi þingsins að breyta til um menn, sem skipaðir hefðu verið í fræðslumálanefndina, þannig: Að í stað Mrs. Sigurðsson kæmi Mrs. Sveinsson, og í stað Tryggva J. Oleson kæmi Jódís Sigurðsson, og í stað Hólmfríðar Danielsonar, kæmi Mrs. Jósefsson, einnig tilkynti forseti eftirfarandi breytingu á mönnum í Minjasafnsmálanefndinni að í stað B. E. Johnson, kæmi séra Valdimar J. Eylands, og Jón Ásgeirsson í stað Davíðs Björnssonar. Enn fremur tilkynti forseti að í útgáfunefndinni kæmi Dr. Richard Beck í stað Gísla Jónssonar.

Kjörbréfanefndin tilkynti, að til þings væri kominn G. J. Oleson frá Glenboro, erindreki frá deildinni „Grund" með 10 atkvæða vald og lagði til að honum væru veitt full þingréttindi. Trausti Ísfeld studdi tillöguna og var hún samþykkt.

Herra G. J. Oleson gaf munnlega skýrslu um starf sinnar deildar, Sigurður Baldvinson stakk upp á og Trausti Ísfeld studdi að skýrslu Olesons sé veitt viðtaka, samþykkt.

**Þingnefndarálit og tillögur í Agnesarsjóðs málinu og minnisvarðamáli J. Magnúsar Bjarnasonar.**

Framsögumaður Mrs. F. J. Kristjánsson.

Nefndin leggur til að eftirfylgjandi tillögur séu samþykktar:

1, Þinginu er ljúft og skylt að tjá öllum Íslendingum þakklæti sitt, sem stutt hafa að framhaldsnámi Miss Agnesar Sigurðson með gjafaframlögum í styrktarsjóð hennar. Ennfremur vottar þingið henni virðingu sína og þökk fyrir ágæta framkomu

hennar og sigurför á sviði listar sinnar.

2. Þingið vottar íslenska kvenfélaginu í Elfros Sask., þakklæti sitt fyrir forgöngu þess og ágætt starf í sambandi við að láta reisa skáldinu J. M. Bjarnason virðulegan minnisvarða. Ennfremur þakkar þingið öllum þeim, sem þar áttu hlut að máli, með fjárframlögum eða öðrum hætti.

Á þjóðræknisþingi 22. febrúar 1949

Steina Kristjánsson,
Kristín Johnson,
Trausti Ísfeld.

Nefndarálitið samþykkt, samkvæmt tillögu frá G. J. Oleson, sem var studd af Trausta Ísfeld.

Dr. Richard Beck lagði til að forseta og ritara sé falið að svara kveðjum frá Íslandi og Svíþjóð símleiðis, en kveðjum, sem þinginu bárust úr þessari álfu bréflega var tillagan studd af G. J. Jónassyni og samþykkt.

Jón M. Ólason lagði til, að þar sem málið um breytingu á þingtíma hefði ekki verið tekið á dagskrá þingsins, þá væri því bætt á hana og þriggja manna nefnd sett í það. Þorsteinn Ólafsson studdi tillöguna og var hún samþykkt. Í nefndina setti forseti:

Ólaf Þorsteinsson,
Magnús Gíslason,
Elínu Hall.

Þar sem engin nefndarálit voru fyrir hendi gat forseti þess, að ef einhver hefði ný mál fram að bera, þá væri nú tækifæri til þess, að afhenda þau þingnefndinni, sem um þau fjallaði. Trausti Ísfeld benti á ungan mann, Lorne Stefánsson í Selkirk, sem þegar hefði vakið eftirtekt fyrir ágætar gáfur, en ætti ekki kost á að þroska þær sökum þröngra fjárhagslegra kringumstæðna.

Sveinn Sveinsson vakti athygli á erfiðum fjárhagslegum kringumstæðum íslensku blaðanna. Báðum þessum málum var vísað til nýmálanefndar þingsins, samþykkt.

Þar sem engin þingnefndarálit voru tilbúin og komið nálægt hádegi lagði Dr. Beck til að fundi væri frestað til kl. 1.30 e. h. Elín Hall studdi og var það samþykkt.

Fjórði fundur settur kl. 2 e. h. Fundargjörð síðasta fundar lesin og samþykkt samkvæmt uppástungu Sveins Sveinssonar og G. J. Jónassonar.

**Þingnefndarálit fræðslumálanefndar.**

Framsögn hafði Mrs. Ingibjörg Jónsson,

1. Þingið lýsir ánægju sinni yfir hinu rausnarlega tillagi félagsins í sjóð íslensku deildarinnar við Manitobaháskólann.

2. Þingið lætur í ljósi þakklæti til Mrs. Hólmfríðar Danielson fyrir ágætt fræðslu málastarf á liðnu ári.

3. Þingið felur stjórnarnefndinni að stuðla að því, að sem flestar deildir félagsins starfræki íslensku skóla á komandi ári.

4. Þingið felur stjórnarnefndinni að panta þegar sýnishorn af linguaphone kensluplötum í íslensku, og ef hún í samráði við kennara álítur þær ákjósanlegar fyrir íslensku skólana, að útvega þá áminstar plötur til afnota í öllum skólunum, kennurunum til aðstoðar á komandi ári.

Ingibjörg Jónsson,
G. J. Jónasson,
L. Sveinson,
Margrét Jósephson,
Jódís Sigurðson.

1. og 2. og 3. liður voru samþykktir umræðulaust. Um fjórða liðinn urðu nokkrar umræður. Mrs. Kristjánsson stakk upp á, og Mrs. P. S. Pálsson studdi, að fjórða lið álitsins sé vísað aftur til nefndarinnar, samþykkt.

**Byggingarmál.**

Forseti las þrjú bréf í sambandi við það mál frá Icelandic Canadian Club, Jóns Sigurðssonar Chapter I. O. D. E. og frá íslensku Good Templara-félögunum.

February 22 1949

The Icelandic National League,
c/o Mr. J. J. Bildfell
Winnipeg.

Dear Sir:

We have your letter of enquiry regarding financial assistance for the erection of a place of recreation. While we are heartily in sympathy with the idea, we are also mindful of the sacrifices that members of our organization have made on behalf of our own Hall, and the cost of maintenance has to be seriously considered.

For these reasons we can not undertake to promise any worthwhile financial assistance at this stage.

When tangible plans have been made, we will be pleased to give the matter our serious consideration.

Respectfully,
The Icelandic Good Templars of Winnipeg
J. T. Beck, Pres.

1267 Dominion Stt.,
Winnipeg, August 7th 1948

Building Investigation Committee
Icelandic National League
c/o Mr. G. L. Johannson
910 Palmerston Ave.,
Winnipeg.

Gentlemen:

Your letter, re the proposed construction of a meeting and recreational hall to fulfill the social reqirements of the Icelandic people of Winnipeg, was read and discussed at the annual meeting of the Icelandic Canadian Club.

It was noted with pleasure that your organization had taken concrete steps towards the furtherance of this, much-needed project, and it was the feeling of the meeting that the Icelandic National League is to be commended for its enterprise and leadership in this matter.

As you know, it has been the policy of the Icelandic Canadian Club at all times to take an interest and an active part in matters pertaining to the welfare of the Icelandic community, and in a matter such as the construction of the hall, the accomplishment of which we feel, is a "must " to ensure the continuance of Icelandic community life in Winnipeg, our organization will render its assistance to the utmost of its ability.

I regret that we are not able at this time to give you definite answer to your question regarding financial assistance. Our membership is rather small, and the financial resources of our club is very limited. However, I feel certain that the organization will make a determined effort to raise funds once the project that you have started is more clearly defined. We would, therefore, appreciate it very much if you would be so kind as to take us into your confidence regarding any plans that you have formulated, such as type of building you plan to build, estimated cost, approximate amount of money required to complete the project, etc.

With the assurance of our co-operation and assistance,
I remain,

Yours sincerely,

Axel Vopnfjord.

869 Garfield St., February 19, 1949
Mr. J. J. Bildfell
Secretary, Icelandic National League,
Winnipeg, Man.

Dear Mr. Bildfell:

In answer to your communication regarding the building of a community hall (or Memorial Hall) for the use of the Icelandic community here, the Jon Sigurdson Chapter, I. O. D. E. wishes to go on record as heartily in favor of such a project.

It was with keen satisfaction that the chapter noted the resolutions passed at the League convention last year regarding this proposed project, and as soon as the League sees fit to launch the enterprise the chapter will of course make special efforts to raise some funds to further the work. Being a small organization our contribution may not amount to large sums of money, comparatively speaking but the League can count on the whole-hearted support of every member of our chapter.

We have no doubt that other organizations among us will give this worthy project their full support, as all are agreed as to the need of such a centre, if the Icelandic community here is to keep up any social or combined cultural activities.

Wishing the Icelandic National League every success in its work, and especially in this vital matter of the community hall, we remain.

Yours very sincerely
The Jon Sigurdson Chapter, I. O. D E.
F. Benson, Regent.
H. Danielson, Secretary.

Umræður urðu nokkrar um málið. Eftir að þeim var lokið, bað forseti leyfis að mega bæta tveimur mönnum í þingnefndina í því máli. Jón Ásgeirsson lagði til, og Jón Ólafsson studdi, að leyfi það sé veitt, samþykkt. Forseti skipaði þá Pál Bardal og Walter Lindal dómara í nefndina.

Ólafur Þorsteinsson gerði tillögu um að þinghaldstíma Þjóðræknisfélagsins sé breytt frá febrúarmánuði til júnímánaðar, sem Jón Ólason studdi. Forseti benti á að á uppástunguna yrði að líta sem tilkynningu um lagabreytingu og hún yrði því lögum samkvæmt að leggjast fyrir næsta þing.

Fræðslumálanefndin lagði aftur fram 4. lið álits síns, og var hann samþykktur og svo nefndarálitið í heild.

Skýrsla fræðslumálastjóra. Frú Hólmfríður Danielson flutti ítarlega og merkilega skýrslu um fræðslustarf sitt munnlega. G. J. Oleson lagði til og Ingibjörg Jónsson studdi að skýrslunni sé veitt móttaka með þakklæti, samþykkt.

**Tillögur þingnefndarinnar í samvinnumálum við Ísland.**

Framsögumaður séra Valdimar J Eylands:

Álit þingnefndar í samvinnumálinu við Ísland.

1. Þingið þakkar heimsókn hr. Thor Thors, sendiherra Íslands í Ottawa og Washington og frúar hans, og þær hinar ágætu kveðjur, sem hann flutti fyrir hönd forseta Íslands, ríkisstjórnarinnar og heimaþjóðarinnar.

2. Þingið fagnar þeirri frétt, að skipaður muni verða á næstunni kanadískur sendiherra á Íslandi; og telur tilhlýðilegt að væntanleg framkvæmdanefnd skrifi hlutaðeigandi yfirvöldum í Ottawa, og láti í ljósi ánægju sína yfir þeirri ráðstöfun.

3. Þingið lýsir ánægju sinni yfir ágætum árangri af prestaskiftunum milli Útskála prestakalls, og Fyrsta lúterska safnaðar s.l. ár, og þakkar hlutaðeigandi prestum, séra Eiríki Brynjólfssyni og séra Valdimar J. Eylands, fyrir ávaxtarík störf þeirra til eflingar nánari kynna, og menningarlegra samskifta milli Íslendinga beggja megin hafsins.

Ennfremur vottar þingið þjóðkirkju Íslands og ríkisstjórn þakklæti sitt fyrir að hafa komið þessum prestaskiftum í framkvæmd. Telur þingið æskilegt að slík verkaskifti haldi áfram, á sviði kirkju og kennslumála, og hvetur væntanlega stjórnarnefnd til að athuga möguleika á framkvæmdum í því efni.

4. Þingið dregur athygli að því hver styrkur þjóðræknisstarfseminni hefir verið að gagnkvæmum heimsóknum Íslendinga yfir hafið, og leyfir sér í því sambandi að vekja athygli á þeirri hugmynd frá fyrri þingum, um að æskilegt væri að Þjóðræknisfélagið stuðli að heimsóknum merkra Íslendinga til fyrirlestrahalds og annarar þjóðræknislegrar starfsemi á meðal vor.

5. Þingið bendir væntanlegri stjórnarnefnd á að æskilegt sé, að hún standi í nánu sambandi við Þjóðræknisfélagið á Íslandi, og eigi samvinnu við það um aðstoð þess við útbreiðslu íslensku vikublaðanna á Íslandi, möguleikum á útvegun íslenskra kvikmynda, og um öll önnur ráð, sem að gagni kunna að koma í hinni sameiginlegu viðleitni að brúa hafið.

Valdimar J. Eylands,
Richard Beck,
G. J. Jónasson,
G. L. Jóhannsson,
S. Baldvinson.

Álit nefndarinnar var í fimm liðum. Samþykkt að ræða það lið fyrir lið. Allir liðirnir samþykktir umræðulaust og svo nefndarálitið í heild. Samkvæmt uppástungu frá G. J. Jónassyni, sem var studd af Böðvari Jakobssyni.

Þingnefndarálitið í Minjasafnsmálinu. Framsögumaður séra Valdimar J. Eylands.

**Nefndarálit í Minjasafnsmálinu.**

1. Með því að minjasafnsmálið virðist hafa legið í þagnargildi undanfarið og ekkert bæst við safnið felur þingið framkvæmdarnefndinni, að hlutast til við íslensku vikublöðin í Winnipeg, ásamt The Icelandic Canadian, að þau birti skrá þá yfir muni minjasafnsins, sem prentuð er í 21. árg. ársrits Þjóðræknisfélagsins, veki athygli fólks vors að nýju á þessari viðleitni, og hvetji til frekari söfnunar á þeim gripum, sem með réttu eiga heima í slíku safni.

2. Að stjórnarnefndinni sé falið að athuga möguleika á því, að fá geymslupláss fyrir minjasafnið í salarkynnum háskólabókasafnsins í Manitoba, þar sem það geymist í þar til gerðum skáp, er sé aðgengilegur, einkum því námsfólki, er leggja vill stund á íslensk fræði í sambandi við hinn fyrirhugaða kennarastól í íslensku og íslenskum bókmentum.

Valdimar J. Eylands,
Jón Ásgeirsson,
Magnús Gíslason.

Samþykkt var að ræða málið lið fyrir lið. Fyrsti liður var samþykktur, annar liður sömuleiðis og nefndarálitið í heild samþykkt.

**Þingnefndarálit í útbreiðslumálum: Álit útbreiðslumálanefndar.**

Nefndin í útbreiðslumálum leyfir sér að gera eftirfarandi tillögur: —

1. Þingið vottar þökk sína forseta félagsins og öðrum þeim, sem unnið hafa að útbreiðslustarfi á árinu, með heimsóknum til deilda, ræðuhöldum um íslensk efni, eða á annan hátt.

2. Þingið leggur áherslu á nauðsyn þess, að stjórnarnefndin kappkosti að heim-

sækja deildir félagsins eftir því sem frekast verði viðkomið, að minsta kosti einu sinni á ári, eða einhver þar til kjörinn fulltrúi af hennar hálfu. Sérstaklega telur nefndin slíkra heimsókna þörf hjá þeim deildum, sem fámennar eru og eiga erfitt með samkomuhöld af sjálfs dáðum. Í því sambandi beinir þingið þeirri bendingu til væntanlegrar stjórnarnefndar að hún komi sér í samband við menn og konur af íslenskum stofni víðsvegar, sem líkleg væru til að geta orðið að liði um heimsóknir til deilda og ræðuhöld á samkomum þeirra, eða með annari þátttöku í slíkum samkomum.

3. Þingið beinir því til stjórnarnefndar, að hún leitist við að stofna deildir þar, sem möguleikar kunna að vera fyrir hendi, og vinni að aukinni meðlimatölu eldri deilda hvar sem líkindi eru til, að slík viðleitni beri árangur.

4. Þingið álítur, að það væri mjög mikilvægt í sambandi við útbreiðslustarfið, ef unnið væri að því, að fá kvikmynd eða talmynd af Íslandi og íslensku þjóðlífi, helst í litum, til sýningar á samkomum deildanna og öðrum samkomum af félagsins hálfu.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg, 22. feb. 1949

Richard Beck,
L. Sveinson,
S. Baldvinson,
Böðvar H. Jakobsson,
Trausti G. Ísfeld.

Framsögumaður Dr. Richard Beck. Var álitið í fjórum liðum og rætt lið fyrir lið, samkvæmt tillögu Mrs. B. E. Johnson, sem var studd af Elínu Hall og samþykkt. Fyrsti liður samþykktur, 2. og 3. og 4. sömuleiðis, nefndarálitið í heild samþykkt samkvæmt uppástungu Dr. Becks og Jóns Ólasonar.

**Skýrsla frá sögunefndinni.**

Framsögumaður Jóhann G. Jóhannson. Samkvæmt beiðni forseta Þjóðræknisfélagsins legg ég fyrir þingið eftirfarandi skýrslu frá sjálfboða sögunefndinni, sem tók að sér að sjá um áframhald á útgáfu á sögu Íslendinga í Vesturheimi.

Eins og þingið veit, þá hafa þrjú bindi verið gefin út — það síðasta 1945. Nefndin sjálf sá um útsölu á öðru og þriðja bindi hér vestra, en mentamálaráð Íslands annaðist útsölu á Íslandi. Bækurnar seldust vel, en það hefir gengið ver en búist var við að fá peninga senda hingað frá Íslandi. Ísland eins og flest Evrópulönd, hefir ekki haft Canada eða Bandaríkjadollara nema af skornum skamti. Af því að svo mikið meira af bókunum seldust heima heldur en hér vestra, var því áframhald á útgáfunni illmögulegt, þegar peningar fengust ekki eins og búist var við. Ennfremur sagði Þ. Þ. Þorsteinsson nefndinni bréflega í desember 1945, að hann treysti sér ekki ýmsra ástæðna vegna, að halda áfram að skrifa söguna.

Áttunda nóvember 1947, fengum við langt og ýtarlegt bréf frá Mentamálaráði Íslands. Bentu þeir á að þeir gætu ekki sent okkur peninga jafn ótt og þeir innheimtust heima, því þar væru svo miklir gjaldeyris erfiðleikar. En á sama tíma gerðu þeir þá tillögu til úrlausnar að þeir (Mentamálaráðið) keyptu alt það upplag sögunnar sem óselt væri á Íslandi. Ennfremur skildist sögunefndinni að í bréfinu væri eiginlega tilboð frá Mentamálaráðinu, að þeir tækju að sér útgáfu á þeim tveimur bindum sem eftir væru. —

Sögunefndin sendi því svolátandi tilboð:

„Að gegn $2.500,00 borgun í canadískum dollurum gefi Sögunefndin kvittun fyrir fullnaðar borgun á reikningi við Mentamálaráð Íslands, (sem þá nam $7019.09); er þetta rýmilega tilboð gert með því skilyrði að Mentamálaráðið á Íslandi taki að sér áframhald á útgáfu Sögu Íslendinga í V. Heimi og haldi verkinu áfram til fullnustu.

Mentamálaráðið sendi nú nefndinni bréf og sagðist ekki geta gefið ákveðið svar við þessari tillögu fyr en þeir vissu hvort fáanlegur væri maður til að rita tvö bindin, sem eftir væru. Vildu þeir helst að einhver Vestur-Íslendingur tæki þetta að sér. Þeir báðu Walter J. Líndal héraðsdómara, að gera samning fyrir þeirra hönd, þegar hæfur maður væri fenginn til að halda áfram með verkið.

Nú hefir samningur verið gerður við próf. Tryggva J. Oleson og á handrit fjórða bindisins að vera tilbúið fyrir 1. ágúst 1950 og handrit fimta bindisins fyrir 1. ágúst 1951.

Það er Sögunefndinni mikið gleðiefni að fullvissa er nú fengin fyrir áframhaldi á útgáfunni og treystir hún því, að Vestur-Íslendingar styrki þetta mál með því að kaupa þessi tvö bindi, sem enn eru eftir. Ekki síður en þau, sem þegar hafa verið gefin út.

Jóhann G. Jóhannsson

Var skýrslunni veitt móttaka af þinginu með þakklæti.

**Álit þingnefndarinnar í byggingarmálinu.**

Byggingarnefndin leggur til að þingið kjósi tvo fulltrúa frá Winnipeg í byggingarnefnd og leggur ennfremur til að eftirfylgjandi félög séu, hvert um sig, beðin að kjósa tvo fulltrúa til að starfa með þeim að þessu máli og að slík nefnd hafi heimild til að bæta við sig.

Félögin sem hér er átt við eru.

Goodtemplarastúkurnar, The Icelandic Canadian Club, Jón Sigurdsonar-félagið og Íslendingadagsnefndin.

Böðvar H. Jakobson, G. J. Jónasson
G. J. Oleson, W. J. Líndal,
P. Bardal.

Nokkrar umræður urðu um þetta álit, en eftir að menn voru búnir að losa sig við það helsta, sem þeir höfðu um það að segja, var það samþykkt óbreytt samkvæmt tillögu ritara, sem Sveinn Sveinson studdi.

Forseti las vinsamlegt skeyti, sem hér er birt, frá H. P. Hermannssyni ræðismanni Svía í Winnipeg, þar sem hann í nafni samlanda sinna þakkar hið djarfmannlega framtak Íslendinga í að stofna kennaraembætti í íslensku við háskólann í Manitoba og með því tryggja framtið Skandinavískrar menningar í Canada.

Icelandic National League.
Care of Consul Grettir Johannson,
910 Palmerston Ave.,
Winnipeg.

On behalf of the Swedish community in Winnipeg, I desire to extend sincere congratulations to Icelandic Canadians for the excellent example set by providing an Icelandic Chair at the University of Manitoba, thereby assuring promotion and perpetuation of Scandinavian cultural studies in Canada.

H. P. Albert Hermannson,
Swedish Consul.

Þegar hér var komið, var orðið fram orðið dags og því fundi frestað til kl. 9.30 f. h. næsta dag 23. febrúar.

Um kvöldið 22. febrúar hélt Frón sitt árlega mót. Var það í þetta sinn haldið í Marlborough gistihúsinu á Smith stræti hér í borginni og var allvel sótt. Skemtanir fjölbreyttar og góðar eins og hér segir:

Ávarp forseta, próf. Tryggva J. Oleson,
Kórsöngur — Mr. Kerr Wilson conductor,
Fiðluspil — Mr. Pálmi Pálmason,
Kvæði — Mr. Einar Páll Jónsson,
Einsöngur — Mrs. Elma Gíslason,
Ræða — Thor Thors,
Kórsöngur — Mr. Kerr Wilson conductor,
Eldgamla Ísafold,
God Save the King,
Dans.

Fimti fundur þingsins settur kl. 10 f. h. 23. febrúar.

Fundargjörð síðasta fundar lesin og samþykkt.

**Þingnefndin í útgáfumálum lagði fram álit sitt.** Þingskjal númer 44. Framsögumaður Dr. Richard Beck, G. J. Jónasson lagði til og Trausti Ísfeld studdi að álitið sé rætt lið fyrir lið, samþykkt.

**Nefndarálit útgáfumálanefndar.**

Nefndin í útgáfumálum leyfir sér að gera eftirfarandi tillögur:

1. Þingið þakkar ritstjóra Tímaritsins, Gísla Jónssyni, ágætt starf hans að ritinu.

2. Þingið vottar Mrs. P. S. Pálsson þökk sína fyrir áhugasamt og árangursríkt starf hennar við söfnun auglýsinga, og tjáir jafnframt þakkir sínar öllum þeim, sem stutt hafa ritið með auglýsingum.

3. Þingið þakkar Þjóðræknisfélaginu á Íslandi fyrir ágæta samvinnu og mikilvæga aðstoð í sambandi við útbreiðslu Tímaritsins, sem félagið kaupir árlega í hundruðum eintaka og útbýtir til meðlima sinna.

4. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að annast útgáfu ritsins á komandi ári eins og að undanförnu, ráða ritstjóra og sjá um aðrar framkvæmdir í því sambandi.

Á þjóðræknisþingi 23. febrúar 1949
Sig. Júl. Jóhannesson,
Richard Beck,
Ólína Pálsson.

Allir liðirnir fjórir samþykktir og nefndarálitið í heild samþykkt, samkvæmt uppástungu Trausta Ísfelds, sem var stutt af G. J. Jónassyni.

Forseti skýrði frá, að myndatökukona hefði beðið um leyfi til að taka ljósmynd af erindrekum þingsins og gestum. Magnús Gíslason gjörði uppástungu um, og Mrs. Gíslason studdi að leyfið sé veitt, samþykkt.

Dr. Richard Beck lagði til að málið um breyting á þingtímanum sé tekið til umræðu á ný. G. J. Jónasson studdi, sam-

þykkt. G. J. Jónasson reifaði málið og benti á erfiðleikana, sem á því væri fyrir marga, að sækja þingið á þeim tíma, sem það nú væri haldið. Nokkrir tóku til máls í því sambandi, með og móti, en sökum þess að ákveðið var að Þorbjörn Þorláksson læknir flytti skýrslu sína um háskólamálið kl. 11 þann dag, og komið var fram að þeim tíma og læknirinn kominn á þing, var umræðum í málinu um tímabreytinguna frestað samkvæmt tillögu frá Gunnari Sæmundssyni, sem Miss Elín Hall studdi, og var samþykkt.

Flutti þá læknirinn skýrslu sína um stofnun kennaraembættis í íslensku og norrænum fræðum við háskóla Manitoba. Skýrslan var munnleg, og þess vegna ekki hægt að prenta hana hér.

Dr. Richard Beck stakk upp á og Jón Ólason studdi, að þingið veiti skýrslunni móttöku og þakki Þorbirni læknir fyrir hina ýtarlegu skýrslu hans og votti honum og samverkamönnum hans þökk sína og virðingu fyrir hans og þeirra drengilegu framtök í því veglega og mikla menningarmáli, og var það samþykkt með dynjandi lófaklappi.

**Málið um myndastyttu Leifs heppna.**
Sendiherrann Thor Thors hóf það mál og rakti sögu þess ítarlega og sagði að enn væri komin fram tillaga í Congress Bandaríkjanna um að veita $50,000.00 til að reisa hana eins og um hefði verið talað í Washington. Sendiherrann á þakkir skilið fyrir áhuga sinn á, og umhyggju sína fyrir því máli, sem væntanlega fær nú farsælan framgang og það ekki hvað síst fyrir hans afskipti af því.

Málið um breytingu á þingtímanum var nú aftur tekið til umræðu, en í sambandi við það lýsti forsetinn aftur yfir, að það yrði að bíða afgreiðslu til næsta þings og því þýðingarlaust að ræða það meir að þessu sinni.

Mrs. Hólmfríður Danielson kvaddi sér hljóðs og benti á að skýrsla fræðslumálastjóra, eins og hún hljóðaði í riti félagsins nýútkomnu, væri svo villandi, að hún kvað óumflýjanlegt að leiðrétta hana og bað þingið um leyfi til að bæta þeirri leiðréttingu við þessa árs skýrslu sína svo að dálítið vit gæti komist í skýrsluna frá fyrra ári.

Jón Ólason lagði til og G. J. Jónasson studdi að það leyfi sé veitt, samþykkt.

**Skýrsla**
**Umboðsmanns Þjóðræknisfélagsins,**
**fyrir árin 1947 og 1948.**

Þegar Þjóðræknisfélagið, vorið 1947, gerði þá ákvörðun að skipa umboðsmann, sem starfa skyldi að íslenskum menningarmálum meðal deildanna, þá var það vegna þess, að framtíðarhorfur í þeim efnum voru allt annað en glæsilegar. Starfið var, sem sé, mjög að dofna, sumstaðar útkulnað, þrátt fyrir baráttu eldra fólksins. Af því ég álít, að hver og einn eigi að ávaxta það pund, sem hann hefir hlotið, með því að vinna ötullega að uppbyggingu sinnar samtíðar, þá fann ég það vera skyldu mína, að verða við áskorun félagsins að takast þetta starf á hendur.

Þetta gerði ég þó með hálfum huga. Þar sem enginn gat leiðbeint mér viðvíkjandi starfsaðferðum var erfitt að skipuleggja starfið fyrir fram. Mitt fyrsta spor var því eðlilega það, að afla mér skilnings á afstöðu fólks til íslenskra menningarmála og getu þess til framkvæmda í þeim efnum. Því miður var að finna, í hverri bygð, sem ég heimsótti, fremur lítinn hóp eldra fólks starfandi að þjóðræknismálum, sem var í þann veginn að verða ráðþrota hvað gera mætti, til þess að bjarga þessum málum við. Yngra fólkið skildi fyrst í stað alls ekki hvað við var átt, er ég talaði um gildi fræðslustarfs í íslenskum bókmentum. En nú, eftir að hafa talað við fjölda yngra og miðaldra fólks, finn ég að mikið er hægt að gera til þess að efla samtök meðal Vestur-Íslendinga um áhugamál þeirra.

Það er ekki hægt að neita því að starfsfólk yfirleitt, og kennarar sérstaklega, voru orðnir uppgefnir og óáræðnir fyrir þá sök, að þeim fanst svo lítil hjálp koma utanað. — Þess vegna er þetta fólk nú mjög þakklátt Þjóðræknisfélaginu fyrir þann stuðning, sem umboðsmanni þess hefir auðnast að láta því í té. Það er erfitt að ímynda sér allar þær torfærur, sem á veginum hafa verið. Það er ekki álitið neitt sældarbrauð að vera barnakennari þó starfið sé alt útlagt fyrir fram, öll gögn lögð upp í hendurnar á kennurunum, og reglubundnir samfundir haldnir með öllum aðilum, til frekari athugunar og umbótar starfinu til handa. En árum saman hafa íslensku kennararnir unnið einangraðir, við óskipulagt starf, með verkefni mjög af skornum skemti, og litla sem enga uppörfun frá meðbræðrum sínum. Það var því alls ekki að furða, þó

þeir, sem lengi hafa lagt fram krafta sína þessu máli til eflingar, væru nú að gugna og gefast upp.

Eftir tveggja mánaða undirbúningstímabil og nokkur bréfaviðskipti við allar deildir Þjóðræknisfélagsins, þar sem ég útskýrði þær starfsaðferðir, er ég áleit heppilegastar, hófust heimsóknir mínar til deildanna um miðjan sept. 1947, og var þeim haldið uppi fram í júnílok 1948.

Alls voru gerðar 27 ferðir til tíu deilda. Fundir voru haldnir með embættismönnum deildanna; íslenskukennarar voru útvegaðir og fundir haldnir með þeim og öðru starfsfólki. Ég hefi haft 24 samtalsfundi með nefndum, kennurum og deildum í heild, þar sem almennar umræður hafa verið um, hvernig best mætti efla viðhald íslenskrar menningar hér vestan hafs. Ég var viðstödd við 14 kenslustundir í Riverton, Gimli og Lundar og sótti stöðugt laugardagsskólann í Winnipeg. Ég veitti kennurunum aðstoð við kensluaðferðir, sagði börnunum sögur um Ísland, og annaðist söngkenslu á skólunum. Auk þess heimsótti ég í byrjun starfsins 80 heimili í Winnipeg og úti í bygðunum. Fyrir tilmæli kennaranna hefi ég fjölritað meira en 3,000 eintök af lesköflum, söngvum, vísum og kvæðum til afnota á skólunum. Til þess að vera í stöðugu sambandi við starfsfólkið alt, hefi ég skrifað því um 200 bréf. Fimm erindi um Ísland voru flutt á samkomum deildanna og 15 stutt ávörp um íslensk menningarmál á opnum fundum þeirra. Tvívegis var ég beðin að flytja erindi um Ísland á samkomum hérlendra ungmennafélaga í Winnipeg.

Séra P. M. Pétursson gerði sér ferðir með mér til Gimli, Riverton og Selkirk, þar sem hann sýndi íslenska kvikmynd, og höfðu bæði börn og fullorðnir ánægju af því. Starfsfólkið væri mjög þakklátt, ef Þjóðræknisfélaginu tækist að útvega fleiri myndir frá Íslandi.

Sem umboðsmanni félagsins var mér boðið að ávarpa skemtisamkomu að Víðir, Man., og útskýrði ég þar fræðslustarfsemi þess. Einnig flutti ég erindi á samkomum deildanna í Selkirk og Brown. Í júní var mér boðið til Vancouver, B. C. til þess að flytja þar fyrirlestur á hinni árlegu hátíð deildarinnar „Ströndin", og þar í borg flutti ég einnig erindi um Ísland á elliheimilinu „Höfn". Í júlí var ég gestur Íslendingadagsins í Blaine, Wash., og ræddi þar áhugamál Þjóðræknisfélagsins.

Sem árangur af þessari fræðslutilraun Þjóðræknisfélagsins má nú telja 450 manns, — börn, unglinga og fullorðna, — sem tóku þátt í íslenskri menningarstarfsemi. Fjórir íslenskir skólar voru starfræktir; barnasöngflokkur var stofnaður í Selkirk og undirstöður lagðar að stofnun barnasöngflokka í Glenboro og Baldur. Tilsögn var veitt í leiklist, leikflokki „Esjunnar" í Árborg; og tvö fræðslufélög (adult study groups) voru starfrækt. Þess utan hafa nokkur ungmenni í Winnipeg, sem ekki gátu sótt skólann, notið tilsagnar í íslensku í heimahúsum. Leskaflar og annað íslenskt efni hefir verið sent fjölda af fólki víðsvegar, sem ekki hefir tækifæri til þess að fá tilsögn í íslensku, en fýsir að fá ofurlitla niðurstöðu í málinu.

Íslensku skólarnir héldu góðar lokasamkomur við mikla aðsókn. Samkoma laugardagsskólans í Winnipeg var frábærlega vel sótt og tókst með ágætum. Þátt í skemtiskránni tóku 26 börn með söng, framsögn og sýndu íslenskan sjónleik.

Kennarar og aðrir, sem þátt tóku í fræðslustarfinu eða undirbúningi þess voru: Riverton: Mrs. F. V. Benedictson, Mrs. O. Coghill, Miss K. Skúlason, Miss S. Brynjólfson, Miss Elma Johnson, Mrs Anna H. Árnason, Lawrence Johnson, og Miss E. Cuddy; Gimli: Mrs. J. Tergesen, Mrs. H. G. Sigurdson, Mrs. I. N. Bjarnason, Mrs. Elín Einarson, Mrs. Th. Kardal, Mrs. Helga Johnson, Mrs. O. N. Kardal og Miss A Miller; Lundar: Mrs. O. Thorgilson, Mrs. L. Sveinson, Mrs. S. Hofteig, séra H. Johnson, Miss Ásta Björnson, Miss Pauline Johnson og V. J. Guttormsson; Winnipeg: Mrs. E. P. Jónsson, Mrs. I. Ingjaldson, Miss S. Eydal, Miss Katrín Brynjólfson, Mrs. Hólmfríður Danielson og Miss Corrine Day; Selkirk: Gunnar Erlendsson og Einar Magnússon Baldur: Mrs. Borga Magnússon og Miss Anna Sveinson; Glenboro: G. J. Oleson og séra Eric H. Sigmar.

Fræðslufélögin samanstanda af ungu og miðaldra fólki, sem tilheyrir annari og þriðju kynslóð Vestur-Íslendinga. Fæst af því hafði áður gefið sig að íslenskum fræðum, en sýnist nú þegar hafa haft mikla ánægju af samfundunum og þeirri uppbyggingu, sem þar er að fá. Vil ég sérstaklega minnast Riverton-félagsins sem telur 18 meðlimi er mæta hálfsmánaðarlega. Er starfið var skipulagt var kjörinn leiðsögumaður fyrir hvern fund. Á

hverjum fundi var tekinn til meðferðar kafli úr bókinni **„Iceland's Thousand Years"**, og allir meðlimir eiga bókina og kyntu sér efnið fyrirfram. Fundarstjóri sá um að útvega íslenskt lesmál, sem átti við verkefni fundarins og stýrði umræðum. Þannig voru lesnir, fyrsta starfsárið, kafl- ar úr Íslendingasögunum, úr Völuspá og Hávamálum. Áhugi þess félags hefir farið vaxandi og byrjaði það annað starfsár sitt s.l. haust. Meðlimir eru nú að kynna sér sögu Vestur-íslensku landnemanna, og hafa til aflesturs fyrirlestra þá sem fluttir voru fyrir **Icelandic Canadian Evening School,** og síðar prentaðir í ritinu, **The Icelandic Canadian.** Auk þess leggja meðlimir til þær heimildir, sem þeim hefir auðnast að safna saman.

Þessari starfsaðferð mætti gjarnan gefa gaum; og takist að útbreiða hana þá er íslenskunni hér ekki eins mikil hætta búin. Í Winnipeg eru óteljandi fræðslufélög, t. d. meðal Skota, Íra og Englendinga, sem starfrækt eru til þess að gefa fólki tækifæri að koma saman í smáhópum og kynna sér verk frægustu rithöfunda og skálda sinnar þjóðar. Það er því réttmætt að Íslendingar haldi við þess konar fræðslustarfsemi sín á milli og gefi sig að bókmentum sinnar þjóðar, sem sígildar eru og dáðar af mentafrömuðum heimsins. — Slík starfsemi er ekki einungis til uppbyggingar og skemtunar fyrir þá, sem taka þátt í henni, því alt sem eflir andlegan þroska einstaklingsins hefir bætandi áhrif á umhverfið í heild, og þess gerist ætíð þörf, — og ekki síst nú á tímum.

Mig langar til að skýra með fáum orðum frá menningarstarfi, sem oss Íslendingum finst e. t. v. nokkuð nýstárlegt. Þó það væri óbeinlínis afleiðing af fræðslustarfi því, er ég hafði með höndum og nyti allrar þeirrar aðstoðar er ég gat veitt, þá var það unnið algerlega af kennara og börnum, sem ekki eru af íslensku bergi brotin, og sýnir oss að margt er hægt að gera til þess að glæða áhuga barnanna fyrir íslenskum efnum.

Vinkona mín, Miss Marion Henderson, sem er yfirumsjónarmaður með söng- og tónlistarkenslu í barnaskóla Iroquois Falls, Ontario, ásetti sér að kynna börnunum í sínum bekk, Ísland. Í sambandi við mannfélagsfræði skólans (Social studies) er kennaranum leyfilegt að innleiða verkefni, sem ekki er á kensluskránni, ef börnin sýna nægan áhuga og eru viljug að sinna því í frístundum sínum.

Það yrði of langt mál að lýsa þeirri fádæma fyrirhöfn, sem þessi gáfaða og mentaða stúlka tókst á hendur, til að gera þetta íslenska fræðslustarf veglegt og skemtilegt. Ítarleg grein er rituð um það í Icelandic Canadian (vorheftið, 1949), en hér verður aðeins minst á aðalatriðin.

Síðastliðið haust, eftir að hafa vakið áhuga nemendanna, skipti kennarinn meðal þeirra öllum bókum og ritum um Ísland, sem við hendina voru og hægt var að fá að. Á þriggja mánaða tímabili, sem starfið náði yfir, lásu börnin þessar bækur: Iceland in Story and Picture; Iceland (V. Stefánsson); Mankind Throughout the Ages; The Great Sea Dragon; Canada's Story; Famous Canadian Stories; Discoverers and Explorers of North America; Pathfinders of North America; Iceland's Thousand Years; margar greinar úr **Book of Knowledge** og **National Geographic Magazine;** 16 greinar **úr Icelandic Canadian,** (um sögu og bókmentir Íslands og um sögu og starf Íslendinga vestan hafs). Við kenslustundir ræddu svo börnin um það, sem þau höfðu lesið og kyntu sér kortið af Íslandi og Ameríku. Þau skrifuðust á við íslensk börn í Manitoba, og söfnuðu íslenskum munum, söngvum, myndum og handiðnaði, sem þau síðar höfðu til sýnis á miðsvetrarsamkomu skólans, og útskýrðu fyrir foreldrum sínum. Á samkomunni var einnig til sýnis, á ofurlitlu leiksviði, táknmynd (Tableau) af komu Leifs Eiríkssonar til Ameríku árið 1000. Að lokum sungu börnin fyrir samkomugesti „Sólskríkjan" í enskri þýðingu.

Þessa tilraun í menningaráttina gerðu ellefu og tólf ára gömul börn, í afskekktu þorpi í norðurhluta Ontario fylkis. En þau hefðu ekki gert það nema fyrir áhuga og **hugsjónir** Miss Henderson, sem fann nautn í því að byggja upp andlegan þroska barnanna, auka víðsýni þeirra og skilning á verðmætum þeim, sem ýms þjóðarbrot eru að leggja í vöggu hinnar ungu Canadisku þjóðar. Væri ekki hugsanlegt að börn og unglingar af íslenskum stofni gætu haft ánægju af starfsemi eins og þessari, ef aðeins hinir eldri leiðtogar hefðu áræði, framsýni og andagift til þess að vísa þeim veginn?

Við vonum öll að hin fagra hugsjón um að stofna kennarastól í íslenskum fræðum við Manitoba háskólann megi rætast.

Samt mun sú kensla, sem þar fer fram, ekki ná til fjöldans. Þjóðræknisfélagið hefir því skilið að til viðhalds íslenskrar tungu og bókmenta **meðal almennings** hér vestan hafs, þarf annað og meira átak. Enda hefði það ekki færst í fang umsvifamikið og kostnaðarsamt starf á þessu sviði ef ekki væri álitið að með því væri stigið mikilvægt spor í rétta átt.

Góðir og gamlir þjóðræknisvinir hafa sagt við mig oftar en einu sinni s.l. ár. „Það tekur kraftaverk að bjarga við okkar íslensku menningu hér vestra, eins og nú er komið". Þetta mun vera nær sanni. Og Þjóðræknisfélagið á þakkir skilið fyrir þessa tilraun til þess að gera kraftaverk!

Einstaklingsátakið virðist oft léttvægt, og fæstir Íslendingar eru færir um að leggja stórfé til menningarmála, enda er ekki hægt að miða menningarstarf óeigingjarnra sjálfboðaliða við dollara. Og ekki má gleyma því, að andlegur þroski mannkynsins, — það sem hann er þó á veg kominn, — á mikið að þakka fórnfúsum sjálfboðaliðum, sem öld fram af öld hafa lagt fram krafta sína góðum málefnum til eflingar. Ef hægt væri, meðal vor Vestur-Íslendinga, að sameina starfskrafta allra þeirra, sem hafa trú á gildi íslenskrar menningarviðleitni, þá mætti ef til vill vinna kraftaverk!

Þó starf mitt í þágu fræðslumála Þjóðræknisfélagsins hafi útheimt mikið þrek og valdið mér allmikillar áhyggju, þá hefir mér samt sem áður, verið veruleg ánægja að samstarfinu við alt það fólk, sem ann þessum málum, og óspart leggur fram krafta sína þeim til stuðnings. Ég get ekki nógsamlega þakkað hina framúrskarandi alúð og hjálpfýsi, sem starfsfólk deildanna hefir auðsýnt mér, að ég ekki minnist á hina frábæru gestrisni og velvild, sem ég hefi orðið aðnjótandi. Viðkynning mín og samstarf við alt þetta ágætis fólk hefir orðið mér persónulega til uppbyggingar og málefnum Þjóðræknisfélagsins til eflingar.

Því miður er mér ekki unt að gefa kost á mér í umboðsmannsstöðuna að ári, en ég mun styrkja þetta mikilvæga málefni fram vegis, eftir megni. Ég óska Þjóðræknisfélaginu allra heilla með framhald þessa starfs og með öll sín störf. Svo er mér, að endingu, ljúft að votta þakklæti mitt öllum þeim, sem af mikilli vinsemd og alúð hafa styrkt fyrirtækið.

HÓLMFRÍÐUR DANIELSON

Fundi frestað til 1.30 e. h.

Sjötti fundur þingsins settur kl. 2 e. h.

Fundargjörningur frá síðasta fundi lesinn og samþykktur.

Umræðum um þingtímabreytinguna var haldið áfram og tóku allmargir til máls. Að lokum lýsti forseti því yfir, að málið gæti ekki orðið útkljáð fyr en á næsta þingi, og að tilkynning G. J. Jónassonar yrði að takast sem tilkynning um lagabreytingu og gæti ekki komið til atkvæða og úrskurðar fyr en á næsta þingi.

Var nú komið fram að þeim tíma, sem embættismannakosningar skyldu fram fara samkvæmt ákvæði félagslaganna og var því gengið til kosninga.

Útnefningarnefnd þingsins stakk upp á að séra Philip M. Pétursson sé endurkosinn forseti, og þar sem enginn annar var tilnefndur í embættið, var hann kosinn í einu hljóði. Útnefningarnefndin stakk upp á prófessor T. J. Oleson fyrir varaforseta. Einnig var stungið upp á Walter Líndal dómara, fleiri voru ekki útnefndir og var gengið til kosninga skriflega á miðum og var prófessor T. J. Oleson kosinn. Útnefningarnefndin stakk upp á Ragnari Stefánssyni fyrir skrifara, stungið var einnig upp á Jóni Bíldfell, var kosið á miðum. J. J. Bíldfell hlaut kosningu.

Útnefningarnefndin stakk upp á frú Ingibjörgu Jónsson fyrir varaskrifara og var frú Ingibjörg kosin.

Fyrir féhirðir var G. L. Jóhannson endurkosinn í einu hljóði. Varaféhirðir var kosinn Grettir Eggertson. Fjármálaritari var Guðmann Levy endurkosinn í einu hljóði. Í varafjármálaritaraembætti voru tveir tilnefndir A. G. Eggertson og Trausti Ísfeld, hlaut sá fyrnefndi kosningu. Skjalavörður var endurkosinn Ólafur Pétursson. Yfirskoðunarmenn endurkosnir þeir Steindór Jakobsson og Jóhann Beck. Útnefningarnefnd var engin kosin.

Að kosningunni afstaðinni kvaddi Paul Bardal sér hljóðs og stakk upp á, að forseti Þjóðræknisfélagsins og Grettir L. Jóhannson séu kosnir í milliþinganefnd í byggingarmálinu. Hann gerði og þá fyrirspurn, hvort að ákvæði þingsins frá fyrra ári um að gefa framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins vald til að kaupa byggingarland, og selja byggingu félagsins á Home Street væri enn í gildi? Til frekari áréttingar gjörði Mr. Bardal uppástungu um að þingsályktunartilllagan frá fyrra árs þingi í byggingarmálinu, sé endurnýjuð af þinginu, að undanteknum öðrum lið þessa álits. Var sú tillaga studd og samþykkt.

Gísli Jónsson stakk upp á, Jón Ólason studdi, að álitið sé rætt lið fyrir lið, samþykkt.

1. liður samþykktur.

3. liður samþykktur sömuleiðis.

4. liður einnig samþykktur. Nefndarálitið í heild samþykkt, að undanteknum öðrum lið þess.

Nefndin í eiginhandritarmálinu lagði að nýju fram álit sitt í því máli.

1. Þingið vottar Lárusi S. Ólafssyni á Akranesi á Íslandi innilega þökk sína fyrir þann áhuga á framhaldandi sambandi og samvinnu milli Íslendinga austan hafs og vestan, og þann góðhug og forsjálni, sem lýsir sér með sendingu bókar hans vestur um haf, er nota skuli til söfnunar eiginhandarnafna Íslendinga vestan hafs, ásamt fæðingardegi og fæðingarstað og núverandi dvalarstað þeirra.

2. Nefndin leggur til, að fengnir séu til samvinnu í þessu máli, forsetar og ritarar hinna ýmsu deilda, til að taka að sér að sjá um innritun eiginhandarnafna sem flestra Íslendinga í bókina, og sé tilnefndur viss tími, sem hún skuli vera í vörslum hverrar deildar.

3. Þar sem tilgangslítið er að senda bókina út um landsbygðir að vetri til, leggur nefndin til að henni verði rástafað í höndum deildanna Fróns í Winnipeg og Brúin í Selkirk til vors.

John M. Ólason
Trausti G. Ísfeld
Gunnar Sæmundson

Eftir nokkrar umræður var nefndarálitið samþykkt.

Einar Páll Jónsson lagði til að þingið vottaði Lárusi Scheving Ólafssyni þökk sína fyrir góðvild og framtak er þessi ræktarsemi hans bæri vott um í garð Vestur Íslendinga með því að standa á fætur. Var það gjört með dynjandi lófaklappi.

Dr. Richard Beck flutti kveðjur og árnaðaróskir til þingsins frá Dr. Haraldi Sigmar í Vancouver, og frú Elínborgu Lárusdóttur í Reykjavík. Tók Dr. Beck að sér að svara kveðjuskeyti Dr. Sigmars, en ritara var falið að svara og viðurkenna kveðju frú Elínborgar.

**Háskólamálið.** Framsögn í því hafði próf. Tryggvi J. Oleson,

Nefndin, sem sett var í háskólamálinu leggur eftirfarandi tillögur fyrir þingið:

1. Nefndin lætur í ljós ánægju sína yfir framgöngu og viðhorfi þessa máls eins og það birtist í skýrslu Dr. Thorlakssonar.

2. Nefndin lætur í ljósi ánægju sína yfir þeirri fullvissun háskólasjóðsnefndarinnar að nafna allra þeirra, er leggja til stólsins verði getið í skrá þeirri, er geymir sögu stólsins.

3. Þar sem verður nauðsynlegt að leita almennra samskota upp að í minsta lagi $20.000,00 leggur nefndin til: (a) að Þ.F.Í. V. og deildir þess taki virkan þátt í söfnun þessa fjár. (b) að Þ.F.Í.V. og deildir þess leitist við að safna frá almenningi að minsta kosti $15.000,00 fyrir 17. júní 1952 (c) að framkvæmdarnefnd Þ.F.Í.V. í samráði við deildir þess ráðstafi með hverjum hætti þessu fé skuli safnað. (d) Nefndin vill samt leggja til að lámark einstaklings tillags sé $25.00, sem þurfi þó ekki að greiðast í einu lagi, svo lengi sem upphæðin lofuð sé greidd fyrir 17. júní 1952 og að framkvæmdarnefnd Þ. F. Í. V. láti prenta skírteini, er nota má þegar upphæðin er greidd öðruvísi en í einu lagi.

4. Nefndin hvetur deildir Þ. F. Í. V. að greiða eins vel og mögulegt er götu Thorlakssonar og samnefndarmanna hans, er hann heimsækir hinar ýmsu bygðir Íslendinga í sumar.

Gunnar Sæmundsson
Einar Magnússon
Tryggvi J. Oleson.

Samþykkt var að ræða nefndarálitið lið fyrir lið.

1. liður samþykktur.

2. liður samþykktur.

3. liður var í þremur köflum, eða stafliðum, a) liðurinn samþykktur, b) liðurinn sömuleiðis. Walter Líndal dómari stakk upp á að c) liðurinn sé feldur úr nefndarálitinu, Trausti Ísfeld studdi og var uppástunga dómarans samþykkt.

4. liður samþykktur og nefndarálitið með áorðinni breytingu samþykkt.

Milliþinga laganefndar álit. Prófessor Tryggvi J. Oleson lagði álitið fyrir þingið.

Milliþinganefnd sú, sem kosin var til að yfirfara grundvallarlög félagsins og athuga hvort gleymst hefði að innfæra breytingar á þeim, tilkynnir að hún hafi ekki fundið neinar óinnfærðar breytingar við grundvallarlög félagsins.

T. J. Oleson
Ingibjörg Jónsson
Ragnar Stefánsson

Ritari lagði til að álitið sé samþykkt, var það stutt af Jóni M. Ólasyni og samþykkt.

Walter Líndal dómari gerði uppástungu um, að útnefningarnefnd sé ekki kosin í Þjóðræknisfélaginu á yfirstandandi ári. Trausti Ísfeld studdi, samþykkt. Formaður Nýmálanefndar, frú Ingibjörg Jónsson lagði fram þingnefndarálitið í því máli. Var álitið í þremur liðum.

**Álit nefndarinnar í Nýjum málum.**

1. Þingið leggur til að tekið verði á starfsskrá félagsins að styrkja efnileg ungmenni til listanáms á líkan hátt og gert var fyrir Agnesi Sigurdson.

2. Þingið leggur til að slíkur styrkur verði takmarkaður við vissa upphæð, er stjórnarnefndin ákveður.

3. Þingið leggur til að öllum beiðnum um slíkan styrk sé vísað til stjórnarnefndar.

Ingibjörg Jónsson
Svana Sveinson
G. J. Jónasson.

Samþykkt var að ræða álitið lið fyrir lið.
1. liður samþykktur.
2. liður samþykktur.
3. liður sömuleiðis, álitið í heild samþykkt.

Fundi frestað samkvæmt uppástungu frá Dr. Beck, sem var studd af Guttormi J. Guttormssyni, til kl 8 e. h., samþykkt.

Sjöundi fundur þingsins settur í Fyrstu lútersku kirkjunni á Victor stræti kl. 8:30 f.h.

Samþykkt var að fresta samþykkt á fundargjörð síðasta fundar og fela framkvæmdarnefnd Þjóðræknisfélagsins að ganga frá honum ásamt síðasta fundargjörningnum.

Ritari las bréf frá þjóðræknisdeildinni Snæfell, ritað af séra Sigurði Kristoferssyni, þar sem afsökun var færð fram fyrir því, að deildin gat ekki sent fulltrúa á þingið. Ritari stakk upp á að tilkynningunni sé veitt móttaka, Dr. R. Beck studdi, samþykkt.

Þá hófst skemtiskrá kvöldsins og var hún sem hér fylgir:

1. Thora Ásgeirsson, Píanó sóló
2. Ræða, herra Thor Thors sendiherra
3. Einsöngur, herra Erlingur Eggertsson (Sigrid Bardal spilaði undir).
4. Ræða, Dr. Richard Beck

Að skemtiskránni lokinni kvaddi forseti ritara til að bera fram nöfn heiðursfélaga og voru þau þessi:

Þorbjörn læknir Thorlaksson í Winnipeg, Guðmundur Grímsson dómari í Rugby N. D. og dómprófastur Friðrik Hallgrímsson, Reykjavík. Forseti bar nöfn þessara manna upp til samþykktar hvert út af fyrir sig, fyrst Þorbjörn Thorlaksson, sem Dr. Beck studdi, í öðru lagi Guðmund Grímsson sem Jón M. Olason frá Mountain studdi og í þriðja lagi séra Friðrik Hallgrímsson, sem Grettir L. Jóhannson studdi og var útnefning allra mannanna samþykkt af þinginu með fögnuði.

Sendiherra Íslands herra Thor Thors afhenti Guttormi J. Guttormssyni stjörnu Fálkaorðunnar, og Guttormur þakkaði fyrir sæmdina.

**Skýrsla fjármálanefndar þingsins**

Skýrslur þær og skilríki, sem fram hafa verið lögð á þessu þingi, eru vel og skilmerkilega af hendi leyst. Skýrslur hafa allar verið yfirskoðaðar af yfirskoðunar mönnum félagsins og bera með sér sæmilegan efnahag.

Lesin og samþykkt.

Einar Magnússon
Hallgrímur Sigurðsson
Ólafur Þorsteinsson.

Að síðustu var stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins falið að annast alt nauðsynlegt sem kynni að hafa gleymst.

Áður en þessu 30 þjóðræknisþingi Íslendinga í Vesturheimi var slitið voru þjóðsöngvarnir íslenski og breski sungnir af öllum hressilega og vel. Tveir forsetar stjórnuðu þessum síðasta fundi þingsins, Tryggvi J. Oleson skemtiskránni, en séra Philip M. Pétursson fundarstörfum.

PHILIP M. PÉTURSSON, forseti
J. J. BÍLDFELL, ritari.

**Minneota, Minn.**
Gunnar S. Bardal
Sr. Guttormur Guttormsson
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Jóseph Jósephson
John A. Johnson
John L. Johnson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Brunswick, N.J.**
Rutger's University Library
Prófessor Helgi Johnson

**New Haven, Conn.**
Próf. Adolph B. Benson
Yale University Library

**New Ulm, Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**New York, N.Y.**
Edvard Frímannsson
Garðar Gíslason
Jón Guðbrandsson
Hannes Kjartanson
Gunnar Magnússon
Georg Östlund
Dr. E. Thorláksson
Ólafur Johnson

**Park River, N. Dak.**
Theodore Eyjólfson

**Philadelphia, Penn.**
Próf. Axel J. Uppvall
Dr. Caroline Brady

**Portland, Ore.**
Barði Skúlason
Guðm. Thorsteinsson
Mr. N. B. Johnson

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. F. Kyle

**Princeton, N.Y.**
Próf. R. V. Lindebury

**Oxnard, Calif.**
Jóhannes Sveinsson

**Rio Linde, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Rugby, N. Dak.**
Dr. Chr. G. Johnson

**San Diego, Calif.**
J. K. Steinberg
Mrs. V. Melsted

**Seattle, Wash.**
Thórir Björnsson
Mrs. Margrét Benedictsson
B. J. Einarsson
Mrs. Helga K. Sumarliðason
B. I. Einarsson

**St. Paul, Minn.**
Minnesota Historical Society

**Topeka, Kans.**
J. B. Linderholm

**Toppenish, Wash.**
Mrs. Bergþóra Benedictson

**Upham, N. Dak.**
E. J. Breiðfjörð

**Virginia, Minn.**
Magnús Magnússon

**Washington, D.C.**
John M. Echols
Mrs. Mekkin S. Perkins

**Williamsburg, Va.**
Próf. Jess H. Jackson

**Woodridge, Mass.**
J. B. Skaptason, Ph.D.

5. DEILDIR

**"Frón"**
**Winnipeg, Man.**
Hannes Anderson
Halldór Árnason frá Höfnum
S. S. Anderson
Mrs. S. Árnason
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Dr. Kristján J. Backman
Mrs. Kr. J. Backman
Mrs. Salóme Backman
Gunnar Baldvinsson
Mrs. Sylvia Barber
Arinbjörn S. Bardal
Jóh. Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Jón Benediktson
Jón Bergman
Rafnkell Bergson
Þorkell Bergvinsson
Guðm. M. Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Ólafur Bjarnason
P. K. Bjarnason
Miss Sæunn Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson
Mrs. Davíð Björnsson
Mrs. Lárus Björnsson
Jónas Björnsson
Mrs. Morey Block
Hjörtur Brandson
Magnús Brandson
Oddur Brandson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Anna Cameron
Miss Friðmunda Christie
Mrs. Jónína Christie
Sigurjón Christophersson
Mrs. Jóhanna Cooney
Hjálmur Daníelsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Mrs. Ragnh. Davíðson
Árni G. Eggertsson, K.C.
Mrs. Guðlaug Eggertson

Jón Einarsson
Stefán Einarsson
Kristinn Einarsson
Elías Elíasson
Leifur Ellison
Gunnar Erlendson
Pétur Erlendsson
Kristinn Eyjólfsson
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
Séra Valdimar J. Eylands
Guttormur Finnbogason
Mrs. St. Finnbogason
Bjarni Finnsson
Mrs. Lára Freeman
Fred Friðfinnsson
Mrs. Trausti Friðriksson
Mrs. G. Gillies
Halldór Gíslason
J. S. Gillies
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Jónbjörn Gíslason
Barney Goodman
Jón Guðlaugsson
Miss Caroline Gunnarsson
Miss Elin Hall
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
John Halldórsson
Mrs. Júlíana Halldórsson
L. J. Hallgrimsson
Björn Hallson
Páll Hallson
Thor Otto Hallson
Karl Hansson
Thorleifur Hansson
Mrs. L. Helgason
Mrs. Rosa Hermanson
Finnbogi Hjálmarsson
Mrs. Jóhanna Hólm
Mrs. Guðm. Ingjaldson
Miss Sigriður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Ásm. P. Jóhannson
Mrs. Gunnl. Jóhannson
Grettir Leo Jóhannson
K. W. Jóhannson
J. W. Jóhannson
Mrs. Jósepina Jóhannson
Stefán Jóhannsson
Mrs. Ásdís Jóhannesson
Guðmundur Jóhannesson
Mrs. G. Jóhannesson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björn Johnson
Einar P. Jónsson
Mrs. Einar P. Jónsson
Mrs. Guðríður Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Ragnar Johnson
S. Johnson
Sigurður Johnson
Þorl. Johnson
Mrs. Þórdís Johnson
Jón Jónsson
Jónas Jónasson
Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Mrs. Jóna Jörundson
Mrs. S. Kjartansson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðgerður Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. Jakob F. Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Capt. Wilhelm Kristjánsson
Guðmann Levy
Mrs. Margrét Levy
Alma S. Levy
Agnar S. Levy
Hannes J. Líndal
Mrs. Hannes J. Líndal
Jón Líndal
Mrs. Una Th. Líndal
Judge W. J. Lindal

Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Guðrún Magnússon
Jóhann Magnússon
Jón Magnússon
Magnús Magnússon
Ólafur Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
C. J. Matthews
Mrs. J. Nordal
J. H. Norman
Mrs. Sigurður Oddleifsson
Mrs. Sesselja Oddson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Mrs. Áslaug Ólafsson
Ben Ólafsson
Jón Ólafsson
Oli Olafsson
Mrs. Ísafold Olafsson
Ólafur Ólafsson
Tryggvi J. Oleson
Kristinn Oliver
Mrs. Kristin Oliver
Thorsteinn Oliver
Mrs. Vilborg Oliver
N. Ottenson
Mrs. Gróa Pálmason
Sveinn Pálmasson
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Mrs. A. Paulson
Hannes Pétursson
Hannes J. Pétursson
Mrs. Jóhanna Pétursson
Ólafur Pétursson
Mrs. Petrea Pétursson
Séra Philip M. Pétursson
Mrs. Phillip Pétursson
Mrs. Hólmfr. Pétursson
Miss Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson Jr.
Pétur Jónas Pétursson
Thorvaldur Pétursson
J. K. Pétursson
Jóhann Sigmundsson
Mrs. Jóhann Sigmundsson
Einar Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson
Eiríkur H. Sigurðsson
Mrs. Jódís Sigurðsson
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Miss Guðrún Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Miss Margrét Sigurðsson
Miss Regina Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Mrs. Sigurþór Sigurðsson
Sigurbjörn Sigurðson
Jóhannes Sigurðsson
J. B. Skaptason
Mrs. J. B. Skaptason
Hreiðar Skaftfeld
Björn Stefánsson
Guðm. A. Stefánsson
Gunnbjörn Stefánsson
Ragnar A. Stefánsson
Guðm. Strandberg
Mrs. Lina Stratton
Björgúlfur Sveinsson
Hans Sveinsson
Mrs. Hans Sveinsson
Thorsteinn Sveinsson
Halldór M. Swan
Benidikt Sæmundson
J. J. Swanson
Halldóra Thomasson
Einar Thompson
Miss Solveig Thompson
Mrs. Th. Thorarinson
Mrs. Margrjet Thorbergsson

Thorbergur Thorbergson
Mrs. Þorgerður Thordarson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Soffonías Thorkelsson
Carl Thorláksson
Miss Elin Thorlacius
J. B. Thorleifsson
Guðm. Thorsteinsson
Mrs. S. Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Örn Thorsteinsson
Jónas Thorvardarson
Vígundur Vigfússon
J. J. Vopni
Mrs. P. Westdal

**"Iðunn"**
**Leslie, Sask.**

Helgi Árnason
Rósmundur Árnason
J. A. Austmann
Mrs. V. Axfjörð
Páll Guðmundson
Þorsteinn Guðmundson
J. Gíslason
John Jóhannsson
Friðrik Nordal
S. G. Nordal
Jón Ólafsson
Guðbjörg Ólafsson
Stefán Olafsson
Jóhann Sigbjörnson
Sigbjörn Sigbjörnson
Sig. Sigurðsson

**"Esjan"**
**Arborg, Man.**

Addi Anderson
Arni H. Anderson
Björn G. Anderson
Mrs. Anna Austman
Rev. B. A. Bjarnason
Eiríkur Bjarnason
G. B. Björnsson
Mrs. Lára Björnson
Grímur Borgfjörð
Mrs. Guðrun Borgfjörð
Mrs. S. M. Brandson
Tímoteus Böðvarson
G. M. Björnson
Björn Bjarnason
Th. G. Björnson
G. O. Einarsson
K. O. Einarsson
Mrs. Herdis Eiriksson
Sigurður Einarsson
W. S. Eyjólfson
Sigurður Erlendson
H. S. Erlendson
Þórarinn Erlendson
Sveinn Eyjólfson

# A BETTER MACHINE FOR EVERY WEED AND INSECT PROBLEM

### The FARGO Sprayer

This is the machine that made such a hit last year. A complete spray unit including engine, pump, tank and booms—all mounted on a sturdy, heavy duty trailer with high speed tires.

### The WESTERNER

The new 1950 Westerner tractor mount has many new improvements—new universal boom swing joint consisting of a safety-clutch for easy control and to prevent damage to the booms.

### The BRANDT Duster

For farmers who prefer dusting to spraying, the Brandt Duster combines high efficiency with economy.

**National Grain**
COMPANY LIMITED

HEAD OFFICE: WINNIPEG

BRANCHES:

REGINA SASKATOON
CALGARY EDMONTON

400 REPRESENTATIVES AT COUNTRY POINTS IN WESTERN CANADA







SOLD BY MARSHALL-WELLS DEALERS.

P25-

## MARSHALL-WELLS

PAINTS · VARNISHES · ENAMELS

Sigurður Finnson
Mrs. Ingunn Fjeldsted
Friðrik Finnson
K. N. S. Friðfinnson
Einar Gíslason
Njáll Gíslason
Halli Gíslason
Ingibjörg Gíslason
Magnús Gíslason
Stefán L. Gíslason
Elli Guðmundson
Mrs. N. Halldórson
Jón Gunnarson
Þorarinn Gíslason
Björn Goodman
Ragnar Guðmundson
Mrs. Guðrún Hólm
Eymundur Danielson
Sigurjón B. Hornfjörð
Böðvar H. Jakobson
Helgi B. Jakobson
Valdi Jóhannesson
Baldvin Jónsson
Mrs. E. L. Johnson
Mrs. Eyrikka Johnson
S. S. Johnson
Jónas H. Johnson
Hallur Johnson
Jónas J. Jónasson
Kristján Jónasson
Marteinn M. Jónasson
Ragnar Karvelson
Leifur Karvelson
Magnús Kristjansson
J. B. Jóhannson
B. J. Lifman
Mrs. Margrjet Lifman
Kristján Magnússon
Mrs. Þorbjörg Mýrdal
Grímur Magnússon
Mrs. Sóley Newman
Sigurbjörn Nelson
O. G. Oddleifson
Mrs. Ingibjörg Olson
Mrs. Sigriður Olafsson
Jón Pálsson
Lárus Pálsson
Wilhelm Palsson
Mrs. Aldis Pétursson
Franklin Pétursson
Jóhannes Pétursson
Þorgrímur Pálsson
Mrs. Emma von Renesse
Arthur Sigurðsson
Friðrik P. Sigurðson
Felix Sigmundsson
Gunnar Sæmundson
Mrs. Margrjet Sæmundson
Bjarni Sigvaldason
Sigurður Sigvaldason
Valdimar Sigvaldason
Th. G. Sigvaldason
Mrs. Lára Sigvaldason
Páll Th. Stefánson
S. T. Sigvaldason
Mrs. Svana Sveinsson
Jakob Sigvaldason
Swain Swainson
Miss Þórunn Vigfússon
Guðmundur Sigvaldason
Jónas Skúlason
Sigurður Vopnfjörð
Sigurjón Þórðarson

**Ísland"**
**Brown, Man.**

Stefán G. Einarson
Árni J. Gillis
Árni R. Gillis
Oskar Gillies
Ragnar Gillis
Andy Gíslason
Lárus Gíslason
J. M. Gíslason
Th. J. Gíslason
Mrs. Th. J. Gíslason
Leonard Helgason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. J. M. Johnson
Óli Líndal
Mrs. Friða Líndal
I. M. Ólafsson
Sigurður Ólafsson
Mrs. Willie Ólafsson
Mrs. P. Runzelman

Jóhann P. Thomasson
Jónatan Thomasson
Thomas Thomasson

**Sambandsdeildin "Ströndin" Vancouver, B.C.**

Oli Anderson
G. Anderson
J. H. Anderson
Mrs. J. H. Anderson
Mrs. G. T. Anderson
Mrs. S. Arnason
A. Björnson
Mr.-Mrs. B. Brynjólfson
G. T. Berg
Miss G. Christopherson
Mr.-Mrs. Eliason
H. Eliason
Mr.-Mrs. T. Eymundson
Mrs. F. W. Edinger
Mrs. T. Egilson
Mrs. M. Frederickson
S. Guðmundson
E. Gunnarson
Mr.-Mrs. Gíslason
Mrs. E. F. Hall
Mrs. C. Helgason
Mrs. A. Harvey
E. Haralds
Mr.-Mrs. Hólm
K. J. Halldorson
C. Ísfjörð
Th. Jónasson
Mrs. F. Johnson
H. Johnson
J. Johnson
S. Johnson
T. Kristjansson
Mrs. D. McDonald
Mrs. Oscar
Mrs. A. C. Orr
F. Sigurðsson
Mrs. S. Skardal
Miss A. Sigurdson
Mr.-Mrs. G. Stefánsson
Rev. Dr. H. Sigmar
F. Thornton
S. Torfason
J. A. Thorsteinsson
Mrs. K. E. Thelander
E. Vatnsdal

**Deildin á Lundar, Man.**

Ágúst S. Eyjólfsson
Mrs. Guðrun G. Eyjólfsson
Mrs. Ásta Sigurðsson
Ágúst Magnússon
Mrs. Ágúst Magnússon
Gísli Gíslason
Jón Lindal
Kári Byron
Mrs. Kári Byron
Stefán Hofteig
Mrs. Stefán Hofteig
Helgi Björnsson
Mrs. Helgi Björnsson
Mrs. Rannveig Guðmundsson
Emil Guðmundsson
Eiríkur Scheving
Thorlákur Nelsson
Mrs. Thorlákur Nelsson
Bjarni Torfason
Lulli Torfason
Torfi Torfasson
Björn Arnfinsson

Jón Björnsson
Gísli Ólafsson
Bóas Ólafsson
Arni Pálsson
Skúli Sigfússon
Jón Sigurjónsson
Hjörtur Hjartarson
Mrs. Hjörtur Hjartarson
Thómas Benjaminsson
Mrs. Thómas Benjaminsson
Mrs. Ljótunn Sveinsson
Óli Ólafsson
Mrs. Óli Ólafsson
Jón Sigurðsson
Mrs. Jón Sigurðsson
Mrs. Kristin Pálsson
Mrs. Ingibjörg Ganton
Dan Lindal
Mrs. Dan Lindal

**Meðlimir "VESTRA"**
**Seattle, Wash.**

Tryggvi Anderson
Marin Anderson
John Ásmundson
Mrs. J. Ásmundson
Olafur Bjarnason
Mrs. O. Bjarnason
Tani Bjornson
Sigrid Bjornson
Bogi Bjornson
S. H. Christianson
Mrs. S. H. Christianson
Mrs. Dora Roswick
Fred J. Frederickson, Everett, Wash.
Mrs. F. J. Frederickson
Sigga Franks
Margret George
Stefan Gudjohnsen
A. A. Hanson
Peter Hallgrimson
Mrs. Peter Hallgrimson
Mrs. A. Hanley
Mr. E. H. Hansen
Mrs. E. H. Hansen
Kjartan J. Johnson
Brynhildur Jonsson
Sigurlaug Johnson
Sara Johnson
Stefan B. Johnson
Steina Johnson
Bjarni O. Johannsson
Aleph Johannsson
J. A. Johannson
Josephine Johannson
Hannes Kristjanson
Kristin Kristjanson
Johann Karason
Gudbjorg Karason
Sverrir Kjartansson
Jon Magnusson
Gudrun Magnusson
H. E. Magnusson
Hanna Magnusson
Gudlaug Magnusson
J. J. Middal
Mrs. J. J. Middal
Ingibjorg Mattiasson
Thorsteinn Palmason
Lillie Palmason
Palmi Palmason
Anna Palmason
George Peterson
Sara Peterson
Gudrun Page
S. G. Richter
Ted E. Samuelson
Mrs. T. E. Samuelson
Emma Scheving
Stefan Scheving
Anna Scheving
Harald S. Sigmar
Ethel Sigmar
S. Sigurdsson, Calgary, Alta.
Ragnheidur Sigurdsson, Calgary, Alta.
Halldor Sigurdsson
Jonina Sigurdsson
Beggi Sigurdson
Ruth Sigurdson
Sigurdur J. Stefansson
Ena J. Sigurdson
K. S. Thordarson
Anna Thordarson
Ragnar Þordarson, Reykjavik, Ísland
S. S. Thordarson
Mrs. Bjorg Thordarson
K. Thorsteinsson
Elin Thorsteinson
Jon B. Valfells, Santa Monica, Calif.
Svava Valfells, Santa Monica, Calif.
Sveinn B. Valfells, Reykjavik, Ísland
Frú Helga Valfells, Reykjavik, Ísland
Mrs. J. P. Wall
Mrs. Margaret Wandrey
Mr. George Sigmar

**Heiðursfélagar**

Mrs. Jakobina Johnson
Mrs. Mary Frederick
Mrs. Helga Johnson

Mr. Gunnar Matthiason, California
Mr. Arni Sumarlidason, Arizona

**"Aldan"**
**Blaine, Washington**

Jónína Árnason
Sig. Arngrímson
Mrs. S. Arngrimson
Margrét J. Benedictson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Andrew Danielson
Mrs. A. Danielson
Guðni Daviðson
Mrs. G. Daviðson
Mrs. Th. Goodman
Gísli Guðjónson
Mrs. G. Guðjónson
Guðm. Guðmundson
Mrs. G. Guðmundson
Guðm. Guðbrandson
Mrs. G. Guðbrandson
Kristján A. Grandy
S. H. Helgason
Thorsteinn Ísdal
Mrs. J. M. Johnson
Rev. G. P. Johnson
Mrs. G. P. Johnson
Skúli Johnson
Mrs. S. Johnson
Rev. A. E. Kristjánsson
Mrs. A. E. Kristjánsson
Mrs. Helga Júlíus
J. G. Jóhannson
Mrs. J. G. Jóhannson
Jón Laxdal
Anna Lyngholt
Sigríður Pálsson
Einar Símonarson
Mrs. E. Símonarson
Guðrún Símonarson
Johann J. Straumfjörð
Mrs. J. J. Straumfjörð
Gestur Stephanson
Mrs. G. Stephanson
Helgi Steinberg
Mrs. H. Steinberg
Elis Thomson
Hannes Teitson
María Thordarson
Jakob Vopnfjörð
Mrs. J. Vopnfjörð
Stefán Skagfjörð

**"Gimli"**
**Gimli, Man.**

Guðjón Árnason
Stefán Anderson
Mrs. Gyða Anderson
W. J. Árnason
Sigurður Baldvinsson
Mrs. Harold Bjarnason
Herbert Bjarnason
Ingólfur N. Bjarnason
Mrs. I. N. Bjarnason
Tavia Borgfjörð
Betel
Einar S. Einarsson
Guðmundur Fjeldsted
Sveinn Geirhólm
Lestrarfjelagið, Gimli
Mrs. Sigrún Gíslason
Miss Magnúsina Halldorsson
Jón Helgason
Þórður Ísfjörð
Mrs. J. Jakobsson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Dr. K. J. Johnson
J. J. Johnson
Mrs. Anna Jónasson
Ol. N. Kárdal
Mrs. Ol. N. Kárdal
Th. Kárdal
Mrs. Th. Kárdal
S. Th. Kristjánsson
Ted Kristjánsson
Pálmi Lárusson
G. B. Magnússon
Jón Magnússon
M. S. Magnússon
Mrs. Th. Magnússon
G. E. Narfason
Lárus Nordal
Miss Anna Nordal
Elias Olafsson
Guðmundur Pétursson
Séra S. J. Sigurgeirsson
Hallgrimur Sigurðsson
Mrs. H. Sigurðsson
Hrólfur Sigurðsson
Eric Stefánsson
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. J. H. Stevens

Mrs. Norman Stevens
Mrs. Jane Sveinsson
Jóhann Sæmundson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. Guðrun Thompson
G. H. Thorkelsson
Mrs. Krístin Thorsteinsson
O. Thorsteinsson
Hjálmur Thorsteinsson
Viglundur Vigfússon

**"Snæfell"**
**Churchbridge, Sask.**

Magnús Bjarnason
Séra S. S. Christopherson
Jóhannes Einarsson
Konráð Eyjólfsson
G. F. Gíslason
Mrs. Gróa Gunnarsson
Sveinbjörn Gunnarsson
Björn Hinriksson
Kristján Johnson
Mrs. Pálína Johnson
Gísli J. Markússon
Þórarinn Marvin
Halldór B. Johnson
Þorleifur Valberg

**"Ísafold"**
**Riverton, Man.**

Thorsteinn Borgfjörð
Gísli Einarson
Mrs. Valgerður Coghill
O. C. Ólafson
Hafsteinn Jónasson
Einar A. Johnson
F. P. Sigurðsson
F. Valdimar Benedictson
Árni Brandson
Jakob Guðjónsson
Mrs. Arnheiður Eyjólfson
Gestur Vídal
Sveinn S. Magnússon
Gunnlaugur G. Martin
Mrs. Anna H. Árnason
Mrs. Kristín S. Benedictson

**Sambandsdeildin**
**"Vísir"**
(The Icelandic Association of Chicago)
**Chicago, Ill.**

Mrs. S. Árnason
Egill Anderson
Mrs. E. Anderson
Paul Einarson
Mrs. P. Einarson
Mrs. R. Hixon
Mrs. Ragna Barnes
Joe Goodman
Mrs. J. Goodman
Mrs. E. Petersen
R. F. Stephenson
Elmer Halldorson
Mrs. E. Halldorson
J. Anderson
Mrs. J. Anderson
Paul Bjornson
Mrs. P. Bjornson
O. J. Ólafsson
Mrs. O. J. Ólafsson
W. W. Sherman
Mrs. W. W. Sherman
Erling Bjarnason
Miss Sigríður Einarson
Alex Benson
Mrs. A. Benson
Alex Benson
Mrs. A. Benson
Daniel Ólafson
Mrs. D. Ólafson
Egill Erlendsson
Ben Gestsson
Mrs. B. Gestsson
Mr. Taylor
Mrs. Taylor
Oli Alfred
Mrs. O. Alfred
Miss Sophia Halldórson
Eyfi Anderson
Mrs. E. Anderson
Aug. Anderson
Mrs. A. Anderson
Paul Halldorson
Mrs. P. Halldorson
Eric Vigfusson
Sam Einarson
T. Thorkelson
Mrs. T. Thorkelson
Bragi Freymóðsson
Miss Viola Barnes
Haraldur Ásgeirsson
Mrs. G. R. Blackburn
Miss Reykjalín
S. W. Guðmundson
Mrs. S. W. Guðmundson
Miss Helga Goodman

